# Almanak

fyrir árið

# 1911

sem er þriðja ár eftir hlaupár og rímspillisár með sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.

SEYTJÁNDA ÁR.

WINNIPEG
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1910

### Á þessu ári teljast liðin vera:

| | |
|---|---|
| frá Krists fæðingu | 1911 ár |
| frá sköpun veraldar | 5878 ár |
| frá upphafi Íslandsbygðar | 1037 ár |
| frá siðabót Lúters | 394 ár |

Árið 1911 sunnudagsbókstafur A.
Gyllintal: 12.

Milli jóla og langaföstu eru 9 vikur

### Myrkvar.

Á árinu 1911 verða 2 myrkvar, báðir á sólu: 28. apríl og 22. okt. annar þeirra sýnilegur hér (28. apríl).

15. des. hylur tunglið plánetuna Marz.

### Árstíðirnar.

Í Vestur-Canada er talið að

| | |
|---|---|
| Vorið byrji | 21. marz |
| Sumarið | 21. júní |
| Haustið | 23. september |
| Veturinn | 22. desember |

### Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

### Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvorn, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir—sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl, er springi út næst eftir 20. marzman. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur, páskadagur, nefnil 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

## Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1911 ........... | 16. Apríl | 1916 ........... | 23. Apríl |
| 1912 ........... | 7. Apríl | 1917 ........... | 8. Apríl |
| 1913 ........... | 23. Marz | 1918 ........... | 31. Marz |
| 1914 ........... | 12. Apríl | 1919 ........... | 20. Apríl |
| 1915 ........... | 4. Apríl | 1920 ........... | 4. Apríl |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd,er líður á milli þess,er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu,og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum einnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til,og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínutur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði ,,meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að ,,meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

# VEÐURFRŒÐI HERSCHEL'S,

**er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.**

Tafla þessi, og athugasemdir þær, er fylgja henni' er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðurbreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjal·lan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl, fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2, verður | Fagurt veður | Frost, nema sunnanvindursé. |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 " 6 " " | Regn | Regn. |
| " " 6 " 8 " " | Vindur og regn | Stormasamt. |
| " " 8 " 10 " " | Breytilegt veður | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri. |
| " " 10 " 12 " " | Tíðar skúrir | Kalt og hvast veður. |
| " " 12 " 2 e. m. | Mjög rigningasamt | Snjór og regn. |
| " " 2 " 4 " | Breytilegt veður | Fagurt veður og hlýtt. |
| " " 4 " 6 " | Fagurt veður | Fagurt veður. |
| " " 6 " 8 " | Fagurt, sé vindur af norðvestri | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n. a. |
| " " 8 " 10 " | Rigning, sé vindur af s. eða s. v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s. v. |
| " " 10 " miðnættis | Fagurt | Fagurt veður með frosti. |

### Litur loftsins um sólsetur.

Þegar himininn er gráleitur og myrkur um sólsetur, eða slái á hann grænum eða gull-grænum lit, er regn í vændum. Rautt sólarlag með skýjum, er verða myrkari, þegar fram á nóttina líður boðar einnig regn.

### Baugur um sólina.

Með baug um sólina meinum vér hina stóru hringi, eða hringparta,er liggja um sólina. Þegar baugur sést um sólina eftir gott veður, má búast við regni.

### Kóróna.

Með kórónu meinum vér smáa hringi,er sjást oft kring um sólina og tunglið. Þegar kórónan fer minkandi, bendir það á regn, stækki hún, er fagurt veður í vændum.

### Regnbogar.

Regnbogi að morgni dags er látinn boða regn; regnbogi að kveldi, fagurt viður.

### Litur himinsins.

Þegar þykkur, djúpur blámi sést á himninum, jafnvel þótt hann sjáist gegnum skýjað loft, boðar hann fagurt veður; verði bláminn ljósari (hvítari), er stormur í nánd.

### Þoka.

Þokur benda á staðviðri. Morgunþoka er vanalega horfin um hádegi.

### Skafheiður himinn.

Þegar gufuloftið er óvanalega skírt, og mjög stjörnubert er, og þær sýnast eins og deplar, er regn í vændum.

### Skýin.

Þegar vér athugum skýin, gefum vér gætur að, hvers konar ský það eru, hvernig þau hreyfast og hvernig þau eru í lögun. Ský þau er menn oft nefna ,,hestatögl" köllum vér þráða ský (Cirri). Einkenni þeirra er að þau sýnast eins og þunnur vefur, er hangir lauslega saman eins og tagl á hesti, eða þau sýnast fléttuð saman eins og hin fjarlægu ský, er mynda sólarhringina. Litlar reglulega myndaðar þyrpingar af skýjum þessum sjást oft fyrir stöðugu, blíðviðri. En þráða-ský eru líka stundum fyrirboði storms. Þegar þau boða storm eru þau vanalega þéttari (fleiri) og hliðar þeirra skörðóttar, og þá verða þau oftast að hvítleitum, löngum skýbakka. Ský þau er alment eru kölluð ,,baðmullar-sekkir", eða ,,þrumuhöfuð", köllum vér skýja-þyrping (Cumulus). Þegar þau sjást um heitasta tíma dagsins en hverfa með kveldinu, er framhaldandi blíðviðri í vændum. Þegar þau aukast skyndilega, síga lágt niður í gufuhvolfið, og hverfa ekki undir kvöldið, mun brátt von á regni. Þegar sérstök smáský virðast eins og slitna frá þeim, má búast við skúrum. Ský þau er sjást vanalegast eftir miðnætti, sýnast liggja niarflöt og taka yfir mikið svæði, boða fagurt veður. Lítil svört vindaský eru fyrirboði regns.

### Loftþyngdarmælir.

Þegar vér notum loftþyngdarmæli, er áríðandi að gefa gætur að

hvort hann stendur fyrir ofan eða neðan vanalega hæð, og hvort hann „fellur" fljótt eða seint. Ef hann stendur fyrir ofan vanalega hæð og er stöðugur—smábreytist ekki,— verður sama fallega veðrið þótt búast mætti við þykku lofti. Ef hann stendur lágt og er að „falla", er regn eða í öllu falli dimmviðri í vændum. Þegar hann „stígur" eða „fellur" skyndilega (meira en 0,01 úr þumlungi á kl.-stund) bendir það á óstöðugt veður og storm.

———

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Týtusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columdus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Britum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1915 |
| Bardaginn við Waterloo | 1812 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1815 |
| Gullið fundið í Californíu | 1819 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1848 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1851 |
| | 1867 |

———

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8 öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.
Fyrstu lög og alþing sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxenskur, 981
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissurson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur,og faðir ízlenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148
Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.
Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svarti dauði geysaði, 1402.
Seinni plágan 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, í 1540.
Fyrstur fastur látínuskóli í Skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk, 1584.
Spitali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslandi 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálhollti til Reykjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sétt í Leirárkirkju, 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Landið gjört að biskupsdæmi 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 18(5.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818.
(Minnisverð tíðindi ekki talin; þau koma út 1796—1808.
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík, 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sétt á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

---

## Stærð úthafanna.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið | " " | 30,592,000 | " | " | " |
| Indlandshafið | " " | 17,084,000 | " | " | " |
| Atlandshafið | " " | 24,536,000 | " | " | " |
| Kyrrahafið | " " | 50,309,000 | " | " | " |

---

## Lengstur dagur.

| | kl. |
|---|---|
| Reykjavík | 20 56 |
| Pétursborg | 18 38 |
| Stokkhólmi | 18 35 |
| Edinborg | 17 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 20 |
| Berlín | 16 40 |
| London | 16 34 |
| Paris | 16 05 |
| Victoria B. C. | 16 00 |
| Vínarborg | 15 56 |
| Boston | 15 14 |
| Chicago | 15 08 |
| Miklagarði | 15 04 |
| Cape Town | 14 20 |
| Calcutta | 13 24 |

## Þegar klukkan er 12

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e.h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinborg | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indl. | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.54 | f.h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima Perú | 12.00 | á hád. |

---

# JANÚAR hefir 31 dag 1911

MÖRSUGUR

**Umskurn Krists,** Lúk. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | Nýársdagur |
| M | 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1865 |
| Þ | 3 | |
| M | 4 | su. 7.58, sl. 4.14. Konráð Gíslason d. 1891. |
| F | 5 | |
| F | 6 | Þrettándi |
| L | 7 | ☾F. kv. 11.51 e. m. — Eldbjargarm. — 12 v. v. |

**Þegar Jesús var 12 ára,** Lúk. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 1. s. e. Þrett.—Ólafur Hjaltason, bisk. d. 1569 |
| M | 9 | Napóleon 3. d. 1873 |
| Þ | 10 | |
| M | 11 | su. 7. 55, sl. 4.22—Geisladagur |
| F | 12 | Gissur jarl Þorvaldsson d. 1268 |
| F | 13 | |
| L | 14 | ☺Fult 3.57 e. m. 13 v. vetrar |

**Brúðkaupið í Kana,** Jóh. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 2. s. e. Þrett.—Sandvíkureyjar fundnar 1778 |
| M | 16 | British Museum opnað 1759 |
| Þ | 17 | Benjamín Franklin f. 1706 |
| M | 18 | su. 7.50, sl. 4.32 |
| F | 19 | Gullið fundið í Californíu 1849 |
| | | ÞORRI |
| F | 20 | Bræðramessa |
| L | 21 | ☽Síð. kv. 11.52 e.m.— Agnesarm. 14 v. vetrar |

**Jesús gekk ofan af fjallinu,** Matt. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 3.s.e. Þrett.—Victoría drottning d. 1901 |
| M | 23 | Gustav Doré d. 1882 |
| Þ | 24 | |
| M | 25 | su. 7.42,sl.4.44—Pálsmessa—Kirkjufél. Ísl. í V.h. |
| F | 26 | stofnað 1885 |
| F | 27 | Mozart, tónfræðingur f. 1754 |
| L | 28 | Holberg danska skáldið f. 1754 15 v.vetrar |

**Jesús gekk á skip,** Matt. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 4.s.e. Þrett.—McKinley forseti f. 1843 |
| M | 30 | ●Nýtt 3.16 f.m. |
| Þ | 31 | Dr. Guðbraudur Vigfússon d. 1889. |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1911

ÞORRI

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | su 7.34, sl. 4.55—Brigildarmessa |
| F | 2 | Kindilmessa.—Baldvin Einarsson f. 1802 |
| F | 3 | Blasíusmessa |
| L | 4 | 16. v. vetrar |

**Illgresi meðal hveitisins**, Matt. 13.

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 5.s.e. Þrett. |
| M | 6 | ☾F. kv.8.50 f.m. |
| Þ | 7 | Charles Dickens f. 1812 |
| M | 8 | su.7.22, sl.5.08 |
| F | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 |
| F | 10 | Canada fengin Englendingum 1763 |
| L | 11 | Thomas Edison f. 1809 — 17 v. vetrar |

**Verkamenn í víngarði**, Matt. 20.

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | Níuviknafasta—Lincoln f. 1809 |
| M | 13 | ◯Fult4.09 f.m. |
| Þ | 14 | Lúters síðasta prédikan 1546 |
| M | 15 | su. 7.10, sl.5.19 |
| F | 16 | Melankton f. 1497 |
| F | 17 | Michael Angelo d. 1563 |
| L | 18 | Þorraþræll — 18 v. vetrar |

**Fernskonar sáðjörð**, Lúk. 8.

GÓA

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 2.s.í níuviknaföstu |
| M | 20 | ☽Síð. kv.6.02 e.m. |
| Þ | 21 | |
| M | 22 | su. 6.58, sl.5.31—Pétursmessa |
| F | 23 | |
| F | 24 | Ingeman, danska skáldið d. 1762 |
| L | 25 | 19 v. vetrar |

**Skírn Krists**, Matt. 3.

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | Langafasta (sjöviknafasta) |
| M | 27 | Longfellow f. 1807 |
| Þ | 28 | ●Nýtt 6.02 e.m. (Góutungl) — Sprengikvöld |

# MARZ hefir 31 dag 1911

| | | |
|---|---|---|
| | | GÓA |
| M | 1 | su. 6.43, sl. 5.44—Öskudagur |
| F | 2 | Sett fyrsta þing Bandaríkjanna 1781 |
| F | 3 | Jónsmessa |
| L | 4 | 20. v. vetrar |
| | | **Djöfullinn freistar Jesú,** Matt. 4. |
| S | 5 | 1. s. í föstu |
| M | 6 | Sveinbjörn Egilsson f. 1791 |
| Þ | 7 | ☾ Fyrsta kv. 4.33 e.m. |
| M | 8 | su. 6.28, sl. 5.55—Jón Thoroddsen d. 1868 |
| F | 9 | Merrimac og Monitor bardaginn 1863 |
| F | 10 | |
| L | 11 | 21 v. vetrar |
| | | **Kanverska konan,** Matt. 15. |
| S | 12 | 2. s. í föstu—Síra Páll Þorlaksson d. 1882 |
| M | 13 | Dr. Guðbrandur Vigfússon f. 1827 |
| Þ | 14 | ☺ Fult 5.30 e.m. |
| M | 15 | su. 6.14, sl. 6.05—Sett fyrsta þing Manitoba 1871 |
| F | 16 | Gvöndardagur (Guðm. hinn góði Hólab.) |
| F | 17 | Magnús Stephensen (gamli) d. 1833 |
| L | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 22 v. vetrar |
| | | **Jesús rak út djöful,** Lúk. 11. |
| S | 19 | 3. s. í föstu - Davið Livingstone f. 1813 |
| M | 20 | Góuþræll |
| | | EINMÁNUÐUR |
| Þ | 21 | Jafndægur—vor byrjar— Benediktsmessa |
| M | 22 | su. 5.58, sl. 6.17—☽ Síð. kv. 5.57 e.m. |
| F | 23 | Riels-uppreistin í Vestur-Canada hófst 1885 |
| F | 24 | Longfellow d. 1882 |
| L | 25 | 23 v. vetrar |
| | | **Jesús mettar 5000 manns,** Jóh. 6. |
| S | 26 | Miðfasta—Beethoven tónfræðingur d. 1827 |
| M | 27 | |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | su. 5.43, sl. 6.28—Swedenborg d. 1772 |
| F | 30 | ● Nýtt 6.09 f.m. (Páskatungl) |
| F | 31 | Bjarni Thorarensen, amtm. f. 1781 |

# APRÍL hefir 30 daga 1911

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | EINMÁNUÐUR |
| L | 1 | Bismark f. 1813 | 24. v. vetrar |
| | | **Gabríel engill sendur,** Lúk. 1. | |
| S | 2 | 5.s. í föstu—Emil Zola f. 1849 | |
| M | 3 | | |
| Þ | 4 | Oliver Goldsmith d. 1744 | |
| M | 5 | ☾Fyrsta kv.11.26 e.m. su. 5.28,sl.6.39 | |
| F | 6 | Canada fundin 1497 | |
| F | 7 | | |
| L | 8 | Kristján IX.f.1818 | 25. v. vetrar |
| | | **Krists innreið í Jerúsalem,** Matt. 21. | |
| S | 9 | Pálmasunnudagur—Dymbilvika | |
| M | 10 | | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | su. 5.12, sl.6.49 | |
| F | 13 | Skírdagur—☺Fult 8.08 f.m. | |
| F | 14 | Föstudagurinn langi | |
| L | 15 | Abraham Lincoln skotinn 1865.—Sum.af 26 v. v. | |
| | | **Krists upprisa,** Mark. 16 | |
| S | 16 | Páskadagur—Magnúsmessa Eyjajarls (h.f.) | |
| M | 17 | Franklin d.1790 | |
| Þ | 18 | | |
| M | 19 | su. 4 58,sl.7.01—Melankton d.1560 | |
| | | | HARPA |
| F | 20 | Darvin d. 1882. Sumard. fyrsti, | 1. v.sum. |
| F | 21 | ☽Síð.kv. 0.07 e.m. | |
| L | 22 | | |
| | | **Jesús kom að luktum dyrum,** Jóh. 20. | |
| S | 23 | 1.s.e.páska—Jónsmessa (Hólab.h.s.) | |
| M | 24 | Daniel Defoe d. 1731 | |
| Þ | 25 | Oliver Cromwell f. 1599 | |
| M | 26 | su. 4.44, sl. 7.12—Moltke, hershöfðingi f. 1892 | |
| F | 27 | U.S.Grant hershöfðingi f. 1822 | |
| F | 28 | ●Nýtt 3.56 e.m. (sumartungl) | |
| L | 29 | Krímstríðið hætti 1856 | |
| | | **Jesús er góði hirðirinn,** Jóh. 10. | |
| S | 30 | 2 s.e. páska | |

# MAÍ hefir 31 dag 1911

HARPA

M 1 Tveggja postula m. — Davíð Livingstone d. 1873
Þ 2
M 3 su.4.31,sl.7.23—Krossm. á vori (fundur krossins)
F 4 3. v. sumars
F 5 ☾F. kv. 6.45 f.m. — Napól. Bonaparte d. 1821
L 6

**Krists burtför til föðursins, Jóh. 16.**

S 7 3 s.e.páska
M 8 John Stúart Mill d. 1873
Þ 9 Schiller d. 1805
M 10 su.4.20,sl 7.33—Eldaskildagi
F 11 4.v. sumars
F 12 ☺Fult 12.50 e.m.—Kóngsbænadagur
L 13 Stofnuð fyrsta ensk nýl. í Ameríku 1601

**Sending heilags anda, Jóh. 16.**

S 14 4.s.e.páska—Vinnuhjúaskildagi
M 15 Hallvarðsmessa—P. Pétursson bisk. d. 1891
Þ 16
M 17 su.4.09.sl.7.43—Tómas Sæmundsson d. 1841
F 18 5. v. sum.
F 19 Gladstone d. 1898

SKERPLA

L 20 Christopher Columbus d. 1506

**Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.**

S 21 5.s.e. páska—☽Síð. kv. 2.54 f.m.
M 22 Sæmundur fróði d. 1135—Victor Hugo d. 1885
Þ 23
M 24 su.4.02,sl.7.53—Victoría drottn. f. 1819
F 25 Uppstigningardagur—Úrbanusmessa.— 6.v.sum.
F 26 Jónas Hallgrímsson d. 1845
L 27 ●Nýtt 11.55 e.m.—Calvin d. 1564

**Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.**

S 28 6.s.e.páska
M 29 Gísli Brynjólfsson d. 1888
Þ 30 Eggert Ólafsson d. 1768
M 31 su.3.55, sl. 8.00

# JÚNÍ hefir 30 dag 1911

SKERPLA

F 1 | 7. v. sum.

F 2 | Garibaldi d. 1883

L 3 | ☾Fyrsta kv. 3.35 e. m.

**Sá, sem elskar mig,** Jóh. 14.

S 4 | Hvítasunnudagur

M 5 |

Þ 6 | Alexander mikli d. 356 f. K.

M 7 | su. 3.51, sl. 8.07—Tómas Sæmundsson f. 1807

F 8 | Jón Hjaltalín landlæknir d. 1870 — 8. v. sum.

F 9 | Dickens d. 1870

L 10 |

**Kristur og Nikódemus,** Jóh. 3.

| Trínitatis—Þrenningarhátíð— ◯Fult 3.22 e. m.

M 12 | Bryant skáld d. 1878

Þ 13 | Jón Sveinsson, landlæknir d. 1803

M 14 | su. 3.49, sl. 8.12.

F 15 | John Engl. kon. undirskrifar, Magna Carta 1275

F 16 | 9. v. sum.

L 17 | Jón Sigurðsson f. 1811

**Hinn auðugi maður.** Lúk. 16.

S 18 | 1. s. e. trín.—Bardaginn við Waterloo 1815

SÓLMÁNUDUR

M 19 | ☽Síð. kv. 2.22 e. m.

Þ 20 |

M 21 | su. 3.50, sl. 8.14—Kristján Jónsson f. 1842

F 22 | Sólstöður, lengstur dagur — 10. v. sum.

F 23 |

L 24 | Jónsmessa—Kristni lögt. á Íslandi 1000

**Hin mikla kvöldmáltíð,** Lúk. 14.

S 25 | 2. s. e. trín.—Ágsborgar játningin 1530

M 26 | ●Nýtt 6.51 f. m.

Þ 27 |

M 28 | su. 3.52, sl. 8.14

F 29 | Pétursmessa og Páls — 11. v. sum.

F 30 |

## JÚLÍ hefir 31 dag 1911

SÓLMÁNUÐUR

L 1 | Dominion-dagur

**Hinn týndi sauður,** Lúk. 15.

S 2 | 3.s.e.trín.—Þingmaríumessa—Sviðhúnsm.(h.f.)
M 3 | ☾F. kv.2.51 f.m.
Þ 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776)
M 5 | su.3.57, sl.8.12
F 6 | 12.v.sumars
F 7 | Jóh. Huss brendur 1415
L 8 | Seljumannamessa

**Verið miskunsamir,** Lúk. 6.

S 9 | 4.s.e. trín.
M 10 | John Calvin f. 1509
Þ 11 | ☺Fult 6.24 f.m.
M 12 | su. 4.03,sl.8.07
F 13 | Margrétarmessa 13.v.sumars
F 14 | Franska stjórnarbyltingin 1789
L 15 | Sviðhúnsm.(h.s.)

**Jesús kennir af skipi,** Lúk. 5.

S 16 | 5.s.e.trín.
M 17 |
Þ 18 | ☽Síð. kv.11.02 e.m.
M 19 | su. 4.10 sl. 8.00—Aukanætur
F 20 | Þorláksmessa(á sumri)—Guðbrandur.—14.v.sum
F 21 | R.Burns d.1796. [biskup d. 1627
L 22 |

**Réttlœti Faríseanna,** Matt. 5.

HEYANNIR

S 23 | 6.s.e.trín.—Hundadagar byrja—miðsumar
M 24 |
Þ 25 | ●Nýtt 1.43 e.m.
M 26 | su. 4.21,sl.7.51—Jakobsmessa
F 27 | Alantshafs ritsíminn fullgerður 1866 15.v.sum.
F 28 |
L 29 | Ólafsmessa (h.f.)

**Jesús mettar 4000 manns,** Mark. 8.

S 30 | 7.s.e.trín.—William Penn d. 1718
M 31 | Jón Ericson, sænski f. 1802,

# Ágæt Samsetning

til að gera umbætur á

# Útliti og Fegurd

á hörundinu og hörundslitnum

hárinu og tönnunum



**Witch Hazel Snow**—Eykur fegurð, er fitulaus Rjómi, --- sérlega mýkjandi og græðandi - - 25c.

**Coronet Geisha Cream**—Olíulaus kaldasmýrsl. Gerir hörundið mjúkt, hvítt og fagurt - - 25c.

**Rose Cold Cream**—Ágætt við áblástrum, snörpum vörum, kuldasárum, sprungum í höndum - 25c.

**Connecticut Witch Hazel Cream**—Ágætur rjómavökvi fyrir hörundið - - - 25c.

**Velvos**—Læknandi og mýkjandi fyrir hörundið - 25c.

## fyrir tennurnar

DENTOX TOOTH PASTE---Hreinsar og hvítar tennurnar. 25c.

DENTOX TOOTH WASH---Hreinsar tennurnar og gerir góða lykt - 25c.

LISTERS TOOTH POWDER---Hreinsar og hvítir - 25c.

## fyrir Hárið

TURKISH SHAMPOO---Egg Shampoo og Tar Shampoo. 25c. Hreinsar hárið og hárssvörðinn. 25c. hvert

CORONET EAU DE QUININE HAIR TONIC --- Læknar væring gerir hárvöxt, og heldur því í góðu ástandi 50c.

RUM & QUININE HAIR TONIC---Læknar og fyrirbyggir væring hárvöxt og hreinsar hársvörðinn - 50c.

**The Martin, Bole & Wynne Company**

Einu eigendur. Winnipeg, Canada

# ÁGÚST hefir 31 dag 1911

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| Þ | 1 | ☽ Fyrsta kv. 5.00 e.m.—Bandadag.—Jór. | |
| M | 2 | su. 4.3o, sl. 7.42 | [Espólín d. 1836 |
| F | 3 | Ólafsmessa (h.s.) | 16.v.sum. |
| F | 4 | H.C.Anderson d. 1875 | |
| L | 5 | Brynjólfur Sveinsson bisk.d. 1675 | |

Um falsspámenn, Matt. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 8.s.e.trín. | |
| M | 7 | | |
| Þ | 8 | | |
| M | 9 | ○ Fult 8.26 e.m.- su. 4.40,sl.7.30 | |
| F | 10 | Lárentíusmessa | 17.v.sumars |
| F | 11 | | |
| L | 12 | | |

Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 9.s.e.trín.—Bóluhjálmar d. 1876 | |
| M | 14 | Napóleon 1. d. 1769 | |
| Þ | 15 | Maíumessa (h. f.) | |
| M | 16 | su. 4.5o, sl. 7.17 | |
| F | 17 | ☾ Síð. kv. 5.42 f.m. | 18. v. sumars |
| F | 18 | | |
| L | 19 | Gestur Pálsson d. 1892 | |

Jesús grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 1o. s. e. trín. | |
| | | | Tvímánuður |
| M | 21 | Symphóníanmessa | |
| Þ | 22 | | |
| M | 23 | ● Nýtt 9.40 e.m. —su. 5.01, sl 7.03 | |
| F | 24 | Bj, Thórarensen d. 1841—Hundadagar enda | |
| F | 25 | | 19. v. sumars |
| L | 26 | | |

Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 11. s. e. trín. | |
| M | 28 | Ágústus d. 430 | |
| Þ | 29 | Höfuðdagur—Jóhannes skírari lífátinn | |
| M | 30 | su. 5.11, sl.6.48 | |
| F | 31 | ☾ Síð. kv. 9.52 f.m. | 20. v. sumars |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1911

TVÍMÁNUÐUR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | |
| L | 2 | |
| | | **Daufi og málhalti maðurinn, Mark. 7.** |
| S | 3 | 12.s.e.trín |
| M | 4 | Franska lýðveldið stofnað 1870—Verka- |
| Þ | 5 | mannadagur |
| M | 6 | su. 5.23, sl.6.34—McKinley forseti skotinn 190: |
| F | 7 | 21.v.sumars |
| F | 8 | ☺Fult 9.18 f.m.—Maríumessa (h.s.) |
| L | 9 | |
| | | **Hinn miskunnsami Samverji, Lúk. 10.** |
| S | | 13.s.e.trín. |
| M | 11 | |
| Þ | 12 | Bardaginn við Quebec og fall Wolfe hershöfð. |
| M | 13 | su.5.32,sl.6.18—Bretar taka Quebec 1759 |
| F | 14 | Krossmessa (krossins upphafn.) 22. v. sum. |
| F | 15 | ☽Síð. kv.11.22 f.m. |
| L | 16 | Mos cow-borg brend 1812 |
| | | **Tíu líkþráir, Lúk. 17.** |
| S | 17 | 14.s.e.trín. |
| M | 18 | Garfield d.1881 |
| Þ | 19 | |
| M | 20 | su.5.44,sl.603—Walter Scott d. 1832 |
| | | Haustmánuður |
| F | 21 | 23.v.sumars |
| F | 22 | ●Nýtt 8.08 f.m. |
| L | 23 | Snorri Sturluson veginn 1241 |
| | | **Enginn kann tveimur herrum að þjóna, Matt. 6.** |
| S | 24 | 15.s.e.trín.—jafndægur, haust byrjar |
| M | 25 | Björn Gunnlögsson f. 1788 |
| Þ | 26 | |
| M | 27 | su.5.54,sl.5.47 |
| F | 28 | 24. v. sumars |
| F | 29 | Mikaelsmessa |
| L | 30 | ☾Fyrsta kv. 4.39 f.m. |

## OKTÓBER hefir 31 dag 1911

HAUSTMÁNUDUR

**Sonur ekkjunnar af Nain,** Lúk. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 16.s.e.trín. | |
| M | 2 | | |
| Þ | 3 | | |
| M | 4 | su.6.05,sl.5.32 | |
| F | 5 | | 25.v.sumars |
| F | 6 | Eldadagur—Tennyson d. 1892 | |
| L | 7 | ☺Fult 9.45 e.m. | |

**Vatnssjúki maðurinn,** Lúk. 14.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 17.s.e.trín. | |
| M | 9 | | |
| Þ | 10 | | |
| M | 11 | su.6.16,sl.5.17 | |
| F | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | 26.v.sumars |
| F | 13 | | |
| L | 14 | ☽Síð.kv. 5.17 e.m. | |

**Hvers son er Kristur?** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 18.s.e.trín.—Gregoríska tímatalið innleitt 1582 | |
| M | 16 | | |
| Þ | 17 | | |
| M | 18 | su.6.28sl.5,03—Lúkasmessa | |
| F | 19 | Jonatan Swift d. 1749 | 27.v.sumars |
| F | 20 | Síra Jón Þorláksson d. 1819 | |
| L | 21 | ●Nýtt 9.40e.m.(vetrartungl) | Sumarauki |

**Limafallsýsjúki maðurinn,** Mark. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 19.s.e.trín. | |
| M | 23 | William Penn steig á land í Ameríku 1681 | |
| Þ | 24 | | |
| M | 25 | su.5.38 sl.4.46 | |
| F | 26 | | Veturnætur af 28.v.sum. |
| F | 27 | Hallgrímur Pétursson d. 1674 | |
| | | | Gormánuður |
| L | 29 | Vetrardagur fyrsti | 1 v. vetrar |

**Brúðkaupsklæðin,** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 28 | 20.s.e.trín. | |
| M | 30 | ☽Fyrsta 0.13.f.m. | |
| Þ | 31 | Reformazíón Lúters 1517 | |

# NÓVEMBER hefir 30 daga 1911

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | GORMÁNUDUR |
| M | 1 | Allara heilagra messa—su. 6.50, sl. 4.37 | |
| F | 2 | Allra sálna messa—Jenny Lind d. 1887 | |
| F | 3 | | |
| L | 4 | | 2. v. vetrar |
| | | **Jesús prédikar um sælu,** Matt. 5. | |
| S | 5 | 21 s. e. trín. | |
| M | 6 | ☺Fult 9.19 f. m. | |
| Þ | 7 | Jón Arason og synir hans líflátnir 1550 | |
| M | 8 | su. 7.02, sl. 4.25—Milton d. 1674 | |
| F | 9 | Skuli landfógeti d. 1794 | |
| F | 10 | Lúter f. 1483—Oliver Goldsmith f. 1728 | |
| L | 11 | Marteinsmessa—Schiller f. 1750 | 3. v. vetrar |
| | | **Hinn skuldugi þjónu,** Matt. 18 | |
| S | 12 | 22. s. e. trín. | |
| M | 13 | ☽Síð. kv. 0.51 f.m. | |
| Þ | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 | |
| M | 15 | su. 7.14, sl. 4.16 | |
| F | 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 | |
| F | 17 | Suez-skurðurinn opnaður 1869 | |
| L | 18 | | 4. v. vetrar |
| | | **Skattpeningurinn,** Matt. 22. | |
| S | 19 | 23. s. e. trín. | |
| M | 20 | ●Nýtt 2.20 e. m.—Sir Wilfried Laurier f. 1841 | |
| Þ | 21 | Maríumessa (Maríu offurgjörð)—Þríhelgar | |
| M | 22 | su. 7.24, sl. 4.08—Ceceilíumessa | |
| F | 23 | Klemensmessa | |
| F | 24 | | |
| L | 25 | Katrínarmessa | 5. v. vetrar |
| | | **Konan blóðfallssjáka,** Matt. 9. | |
| S | 26 | 24. s. e. trín. | |
| | | | ÝLIR |
| M | 27 | Grímur Thornsen d. 1898 | |
| Þ | 28 | ☾F. kv. 7.13 e.m.—Wash. Irving d. 1859 | |
| M | 29 | su. 7.35, sl. 4.02 | |
| F | 30 | Andrésarmessa | |

# DESEMBER hefir 31 dag 1911

Ýlir

F 1 Eggert Ólafsson f. 1726
L 2 — 6. v. vetrar

**Krists innreið í Jerúsalem,** Matt. 21.

S 3 1. s. í jólaföstu—Adventa
M 4
Þ 5 ○Fult 8.23 e.m.—Mozart d. 1791
M 6 su. 7.43, sl. 3.59
F 7 Jón Sigurðsson d. 1879
F 8
L 9 — 7. v. vetrar

**Teikn á sól og tungli,** Lúk. 21.

S 10 2. s. í jólaföstu
M 11
Þ 12 ☽Síð. kv. 11.17 f.m.
M 13 su.7.51, sl.3.58—Lúcíusmessa — Magnúsmessa
F 14 [Eyjajarls (h.s.)
F 15
L 16 — 8. v. vetrar

**Jóhannes í böndum,** Matt. 11.

S 17 3. s. í jólaföstu
M 18
Þ 19
M 20 ●Nýtt 9.11 f.m.—su. 7.55, sl 3.59
F 21 Tómasmessa
F 22 Tólhvörf: skemstur dagur
L 23 Þorláksdagur — 9. v. vetrar

**Vitnisburður Jóhannesar skírara,** Jóh. 1.

S 24 4. s. í jólaföstu—aðfangadagur jóla (nóttin helga)
M 25 Jóladagur
Þ 26 Annar í jólum

Mörsugur

M 27 su. 7.58, sl. 4.05
F 28 ☾F. kv. 0.19 f.m.
F 29 Gladstone f. 1809
L 30 — 10. v. vetrar

**Símon og Anna,** Lúk. 2.

S 31 s. milli jóla og nýárs—Gamlársdagur



JÓN SIGURÐSSON.
Fæddur 1811—(Dáinn 1879).

# Almanak.

17. ár. Winnipeg 1911

## FLORENCE NIGHTINGALE.

HÚN var borin í heim þenna 12. maí 1820 í Flórens-borg á Italíu. Voru foreldrar hennar auðugir og áttu landeignir miklar í Derby-skíri á Englandi.

Þegar hún var 18 ára, var farið með hana til Lundúnaborgar, til þess að gera hana kunnuga við hirðina. Hún hitti þar umbótakonuna, Elísabet Fry, sem svo miklu hafði til leiðar komið með umbætur á kjörum fanga í dýflissum á Englandi. Út af samtali við hana reis fyrst upp í huga hennar hugmyndin um álíka ætlunarverk, þar sem sjúkrahælin voru. Þegar Nightingale-fjölskyldan næsta ár fór vanaferð sína til meginlands Norðurálfu, gaf Florence sig alla við að kynna sér fyrirkomulag og háttu við sjúkrahælin, í stað þess að gefa sig alla að samkvæmislífinu, eins og stúlkum á hennar aldri er gjarnt. Í níu ár gerði hún ekki annað en ferðast milli helztu borga

meginlandsins og kynnast störfum og ætlunarverkum hjúkrunarkvenna. Árið 1851 gerðist hún sjálfboða hjúkrunarkona á æfingarstofnaninni frægu í Kaiserwerth á Þýzkalandi. Síðar fór hún til Parísarborgar og stundaði nám við sjúkrahæli systranna af St. Vincent de Paul, en þá bilaði heilsa hennar og hún varð að hverfa heim til Lea Hurst; svo nefndist heimili hennar á Englandi.

Krím-styrjöldin brauzt út og brátt varð það heyrum kunnugt á Englandi, að óvinaherinn var eigi nœrri því eins hættulegur brezka liðinu, eins og herbúðirnar sjálfar og ásigkomulag þeirra, og sjúkrahælin, sem átin voru taka við hinum særðu.

Undirbúnings-áhuga Miss Nightingale hafði verið veitt eftirtekt á Englandi. Sá hét Sir Sidney Herbert, sem þá var hermála-ráðgjafi. Leit hann svo á að það væri engis meðfæri nema konu að bæta úr ástandinu við herinn á Krímskaganum. Það vildi svo til, að árið 1854, einmitt um sama leyti og Miss Nightingale reit honum bréf og spurði, hvort hún mætti fara til hersins og leitast við að liðsinna hinum særðu, reit Sir Sidney henni annað bréf og bað hana einmitt að gjöra þetta; fóru þau bréf hvort fram hjá öðru á leiðinni. Fám dögum síðar lagði hún af stað og 34 hjúkrunarkonur með henni

í því skyni að takast líknarstarf þetta á hendur. —Áður hún kom, lágu brezkir hermenn þús. saman, bæði í hermanna-hælunum í Scutari og Kululi, vikum saman án nokkurrar læknishjálpar, ógert við sár þeirra og eigi hugsað fyrir hæfilegu viðurværi. Voru húsakynnin svo illa hirt, að fullhraustur maður hlaut að verða fárveikur af að anda að sér lofti, er þrung ð var sóttkveikju. Í Scutari dóu 42 af hverju hundraði, en 52 í Kululi. Og eigi færri en 80 af hundraði hverju var sagt að dæi úr blóðeitran, þeirra er limir voru teknir af. Tala sjúkra



Florence Nightingale.

var yfir 13,000. Í tyrknesku herbúðunum við Bosporus voru tvöfaldar raðir af sjúkrasængum tvær mílur á lengd beggja megin gangrúms. Fult var af rottum, sem hlupu fram og aftur þvers yfir sjúklingana ósjálfbjarga. Fregnritar komust loks að upptökum óhamingju þessarrar, og létu þeim skell í koll koma, er sekir voru, en það voru skrifstofuþjónar hermáladeildarinnar, sem alt misskildu, og létu firn ónotaðra lyfja liggja í skipum á höfnum, einungis vegna þess að enginn var til að skipa fyrir um uppskipan.

Þarna dvaldi nú Florence Nightingale hálftannað ár og giltu orð hennar allan þann tíma eins og lög, að því er snerti skipulag sjúkrahælanna. Hún ónýtti skrifstofu-reglurnar allar í sambandi við sjúkrahælin, gerbreytti skipulagi þeirra, og gerði þau að hæfum athvarfsstöðum veikra manna og særðra. Stjórnsemi hennar kom henn að góðu haldi, enda þurfti á henni að halda, til að breyta stjórnlausri óreglu í bezta skipulag, láta dauðsföllum fækka og fá þúsundum mannslífa borgið.

Starf hennar var í þessum efnum byrjan nýs tímabils, á líkan hátt og störf læknanna frægu, Lister og Pasteur, á svæði læknisfræðinnar. Það var undirstaða og sjálfsagður grundvöllur að framförum þeim hinum miklu, sem gerðar

hafa verið síðan í aðhjúkran og heilnæmis-ráðstöfunum í sambandi við hernað. Aldrei hafa þær framfarir komið betur í ljós en í stríðinu milli Rússa og Japansmanna. Sökum þess líknarstarfs, er hún hafði unnið, dirfðist nú engin menningarþjóð lengur að hafa hernaðarundirbúning um hönd, án þess að gera fullkomnar ráðstafnir fyrir meðferð sjúkra og særðra.

Játvarður konungur sæmdi Miss Nightingale Verðleika orðunni (Order of Merit). Það eru hæstu verðlaun, sem sá valdhafi gat nokkurum í té látið. Á fyrri öldum myndi henni hafa skipað verið í dýrlingatölu.

Florence Nightingale lézt í sumar, sem leið, og hafði heimurinn kepst við að sýna henni allan hugsanlegan sóma, svo naumast hefir nokkurri konu hlotnast annar eins. Hún var nefnd ,,Höfuðs-konan (Lady in Chief; sbr. höfuðs-maður), ,,Krímskaga-konan,“ og konan með lampann. Það var lampi hjúkrunarkonunnar, sem átt var við, og er sagt, að sjúkir hermenn hafi oft kyst á blettinn, þar sem birtunni sló yfir, er hún var á gangi milli þeirra um hánæturskeið.

Miss Nightingale var af únítaraættum og upp alin í þeirri trú, en er hún lézt, var hún jarðsett sem meðlimur ensku kirkjunnar. Hún var brennheit trúkona alla æfi. ,,Eg neitaði

aldrei guði um neitt viljandi," er haft eftir henni. Hún var í vinfengi miklu við Harriet Martineau og dáði hana mjög. Hún harmaði, að Miss Martineau hneigðist fremur til guðsneitunar. Þegar fregnin um lát þess fræga kven-rithöfunds barst út, varð mönnum tíðrætt um, hve sárt væri, að hún hefði dáið trúlaus,og sumir vinir hennar voru hneykslaðir og harðir í dómum. Gjörðu þeir ýmsar athugasemdir um raunalega endalykt lífs hennar og sálar-glötun. Þá er sagt Florence Nightingale hafi brosað og sagt; ,,Hve dýrlegt fát hlýtur að hafa komið á hana,er hún vaknaði í Paradís og sannfærðist um, að hún hefði haft rangt fyrir sér!"



## Konungurinn og snjótitlingarnir.

(Æfintýr).

—

ÞAÐ var einn jóladagsmorgun endur fyrir löngu, að Svía konungur ók heim frá kirkju í sleða sínum, sá hann þá snjótitlinga fljúga í stórum breiðum fram og aftur upp yfir sér. Þeir tístu og flögruðu fram og til baka eins og þeir vissu ekki, hvert þeir ættu að fara.

Kóngurinn spurði ökumann sinn, hví titlingarnir létu svona. Ökumaður var landbúnaðarmaður og sagði kóngi að snjór tæki alla snöp af í skógum og ökrum svo titlingarnir gætu ekki haldist þar við, og fyrir það þyrptust þeir inn til bæja og borga til að leita sér matar.

Kóngurinn hlýddi á sögu ökumanns síns með athygli og bað hann því næst að aka heim til hallar hið hraðasta hann gæti. Þegar þeir komu heim, gerði konungur orð eftir yfirbryta sínum og sagði honum að láta taka stærsta kornhneppið úr kornforðabúri sínu, binda það á háa stöng, og reisa hana upp fyrir framan höllina, svo að tilingarnir gætu átt gott á jólunum og þyrftu ekki að svelta. Það var gert eins og konungur sagði fyrir, og gerði titlingana káta endilangan daginn.

Hátíðar fólkið, sem fór svo hundruðum skifti fram hjá höllinni nam staðar og horfði á þessa óvenjulegu sýn. Sagan af tiltæki kóngsins fór mann frá manni og um dagsetur skeið var hún komin út um alla borgina, og jafnvel út um næstu sveitir umhverfis hana. Enn þá þann dag í dag er það svo í mörgum héruðum í Skandinaviu, að bændur búa til stórt kornhneppi, þegar uppskerunni er safnað, og kalla það jólahneppið og hafa það

til að tolla í tískunni við þennan sið, sem í sjálfu sér er fagur, og sem konungur þeirra tók upp endur fyrir löngu.

Á jóladagsmorgnana, þegar fólkið heldur til sóknarkirkju sinnar, ungir og gamlir, ríkir og fátækir, þá blasir hvervetna við stærðar kornhneppi og utan um þau flögra titlingarnir og tísta og hjúfra sig. Og sú sjón minnir gamla fólkið á þá tíð, þegar það var að vaxa upp, og foreldrar þess að segja því munnmælasöguna af kónginum og snjótitlingunum og hve gaman því þótti aftur af því, þegar það var upp komið, að segja börnum sínum munnmælin og hvernig þau urðu til.

---

## MYLSNA.

Tala bújarða í Bandaríkjunum er 6 miljónir, og hver jörð er að meðaltali 146 ekrur. Bújarðirnar allar til samans gera ¼ af þjóðeign ríkjanna.

Hundrað þúsuud bakteríur fundust á flugu, sem leitað var á.

Þriðji hver maður á Þýzkalandi er rómversk-katólskur.

Sextán liggja sæsímar yfir norðanvert Atlantshaf.

Almenningar í Bandaríkjunum eða afréttarlönd eru til samans 300 miljónir ekra.

Laxinn er sagður spretthar̄ðastur allra fiska.

Póstur var sendur á járnbraut í fyrsta sinn árið 1838.

Eitt þúsund miljónum dala er varið árlega í Bandaríkjunum til bygginga, en beinn og óbeinn skaði af eldi árið 1907 nam 450 milj. dala eða nálega helming af bygginga kostnaðinum.

Hong Kong í Kína er næst Lúndúnum mesta verzlunarborg í heimi; 25 milj. smálesta eru fluttar þaðan til og frá á ári.

Skóglendur Bandaríkjanna taka yfir 550 milj. ekra; í fyrstu náðu þær yfir 850 milj. ekra.

Bankar mega taka sér ¾ klukkustundar frest til umhugsunar áður þeir segja til hvort þeir vilji greiða eða láta vera að greiða víxla ávísanir á þá.

Alfons Spánar konungnr er sagður vera ein af beztu skyttum í Norðurálfu.



# SAFN

TIL

LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI

—

## Stutt ágrip af landnámssögu Íslendinga í Albertahjeraði.

—

EPTIR JÓNAS J. HUNFORD.

—

### INNGANGSORÐ.

Þar skal sögu þessu hefja, sem áður var frá horfið, í fyrsta kafla hennar, að hinir fyrstu landnemar, voru staddir á norðurbakka Red Deer árinnar og hugðu á bólstaðar gjörð, hver þar, sem honum leizt myndi giptudrjúgast fyrir framtíðina. Þess hefir áður verið getið, að tvö township, hötðu verið valin fyrir landnám Íslendinga. En sá var galli á öðru þeirra að í því vöntuðu sections mælingar. Það liggur að mestu vestan Medecine árinnar. Það er frjótt land víða, sumstaðar nokkuð lágt. Enginn af þessum landnema hóp, tók þá land vestan árinnar; bar til þess einkum tvennt: áin var þá í stórflóði lengi sumars og torsótt yfirferðar, og svo var landið þau missiri ákaflega blautt; voru þar sumstaðar stórvötn, sem síðar urðu frjó heylönd, en sem þá, sýndust ekki auðveld til afnota. Nóg var þá landrými austan árinnar og þurrara. Allir

vildu ná-hallkvæmu framtíðarlandi. Dreifðust svo þessir fáu menn um township, 36 Rangs 1 og township 37, Range 2, sem þá var ómælt, liggur það báðum megin árinnar, samt meira austanvert. Á ómældu löndin settust menn eftir ágizkan einni um landamerki, og reyndist slíkt víða ekki rjett, sem von var, þegar landið var mælt mörgum árum síðar; urðu þá sumir miður ánægðir með sitt landnám, sem leiddi til þess,að nokkrir færðu þá bú sín á geðfeldari stöðvar. Þeim sem sezt höfðu vitneskjulausir á jarnbrautar- eða Hudson Bay lönd, útvegaði stjórnin landaskipti, svo þeir mættu hafa bú sín kyrr, ef þeim hugnaði það betur. Þess er getið að framan í I. kafla, að ellefu fjölskylduleður heiðu flutt norður, af þeim sem tóku far frá Winnipeg; en gleymzt hefir, að geta eins af þeim, Sigurðar Björnssonar, sem kom frá Dakota. Einnig var í fjölskyldu Sigurðar Árnasonar, giftur maður Guðmundur Illugason, sem fylgdist með til Calgary, og sem síðar nam land nyrðra. Litlu síðar fluttu þeir einnig norður Guðmundur Jónsson og Sigfús Goodman sonur hans, og settust á lönd sín.

---

## 2. Þættir landnámsmanna.

### 1. ÞÁTTUR

**Sigurður Jósúa Björnsson.** Hann var ættaður úr Dalasýslu. Eigi er mjer kunn ætt hans nje konu hans, sem Kristveig hjet. Þau áttu fjölda barna og komu til Alberta fjevana. Aleiga Sigurðar var: ein matreiðslustó og ein kýr, sem hann átti að hálfu við annan mann. Hvenær Sigurður flutti af Íslandi, er óvíst, en líkur þykja mjer til, að hann hafi komið vestur um haf, árið 1874,eða máske ári fyrri, og flutt til Nýja Íslands, en þaðan til N. Dakota, þegar mannflutningarnir hófust þangað, og numið land suður af Hallson pósthúsi, en hvaða ár er óvíst. Eins og áður er sagt, flutti hann til Alberta árið 1888; Sigurður settist að á ómældu landi austanverðu Medicine árinnar,nokkru neðar en nú er Markerville-bær; þar bjó hann ekki lengi, en flutti hjeðan vestur í Okanagandalinn í B. C., og eigi löngu síðar vestur að Kyrrahafi.

Þar dvaldi hann lengi og er sagt, að á ýmsu ylti fyrir honum. Síðan fór hann til Íslands, og fæst nú við kolanámuleit á Vesturlandi. Sigurður hafði fjölbreyttar og skarpar gáfur, var vel skáldmæltur og vel að sjer gjör um margt, en á honum ætla jeg hafi sannast: ,,sitt er hvað, gæfa og gjörvuleiki."

## 2. ÞÁTTUR.

**Ólafur Ólafsson** (frá Espihóli). Faðir Ólafs var Ólafur Gottskálksson á Fjöllum í Kelduhverfi, en móðir hans var Kristín Sveinsdóttir, hreppstjóra á Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi. Ólafur er tvígiftur. Giftist hann 25 ára, Ólöfu Jónsdóttur frá Lóni í Kelduhverfi. Eftir það var Ólafur með tengdaföður sínum hið næsta missiri; síðan flutti hann til Eyjafjarðar, og bjó fyrst að Reistará,



flutti þaðan að Nesi, og var í sambýli við Einar Ásmundarson tvö ár. Frá Nesi flutti hann að Hringsdal og bjó þar nokkur ár. Þaðan færði hann bú sitt að Espihóli, og bjó þar við rausn mikla þangaðtil árið 1873. Brá hann þá búi og flutti frá Espihóli til Vesturheims; var hann annar mestur forystumaður norður þar, þeirrar farar.

Staðnæmzt mun Ólafur hafa um hríð í Ontario fylki, en flutt þaðan suður til Bandaríkja, til Milwaukee-borgar í Wisconsin og dvalið þar um tíma. Haustið 1874 fór Ólafur, ásamt Jóni Ólafsyni, Páli Björnssyni til Alaska landkönnunarferð, og höfðu þar vetursetu nyrðra, en hjeldu næsta sumar heimleiðis til Milwaukee. Eigi miklu síðar, flutti Ólafur til Nýja Íslands, ásamt konu sinni cg og tveim fóstursonum þeirra hjóna, Ólafi og Friðrik, sem báðir voru í frændsemi við Ólaf. Í Nýja Íslandi missti Ólafur konu sína og Ólaf fóstra sinn. Í Nýja Íslandi mun Ólafur hafa verið kringum fjögur ár. Tók hann sig þá upp, með Friðrik fósturson sinn og flutti suður til N. Dakota, og nam land í Garðar-byggð. Þar kvæntist Ólafur öðru sinni Önnu Jónsdóttur frá Breiðsstöðum í Skagafirði. Þau hafa eignast fjögur börn; tvö dóu í æsku; tvær dætur þeirra munu vera í Winnipeg: Ólöf gift J. T. Goodman, og Friðey, sem er með foreldrum sínum. Ólafur hafði bú á landi sínu 8 ár, eftir það seldi hann það. Var hann þá um hríð póstafgreiðslumaður, fyrst að Garðar, svo að Mountain, unz hann flutti vestur í Alberta-hjerað árið 1888, sem áður er sagt. Settist hann að á ómældu landi, að austanverðu við Medicine ána, á sama fjórðaparti sectionar og Markerville stendur á; þar mun hann hafa búið næstu tvö ár. Eftir það færði Ólafur bústað sinn austur að vatni því, er Burnt Lake er nefnt, og bjó þar um eitt ár, eða máske tvö, þótt að jeg þori ekki að fullyrða það, eftir það flutti Ólafur hjeðan suður til Calgary og var þar tvö ár. Þaðan flutti hann vestur til Vernon í Okanagandalnum í B. C. og dvaldi þar þrjú ár. Þaðan flutti hann austur til Winnipeg, nú fyrir rúmum ellefu árum og hefir verið þar síðan. Af því sem nú hefir verið sagt, sjest, að Ólafur hefir hvergi verið lengi í sama stað, meðan aldur og

starfsþrek var eigi til hindrunar; farfýsin var honum eðlileg og tilhneiging hans sterk, að leita gæfunnar á ýmsum stöðum. Ólafur var hinn höfðinglegasti maður, og bar flest til þess; hann var gjörvilegur, fríður sýnum og svipurinn mikill og hreinn, spekingur að viti og flestum sjálfmenntuðum mönnum fjölfróðari; minni hans og lestrarfýsn er viðbrugðið; drengur hinn bezti, allstaðar virtur og vinsæll, tölumaður einn sá bezti, sem jeg hefi heyrt.—Hann er nú kominn á áttræðis aldur, en er ungur í anda, og verður það til æfiloka. Að engum manni, sem hjeðan hefir flutt, finnst mjer hafa verið slíkur sneiðir, sem að göfugmenninu Ólafi Ólafssyni frá Espihóli.

## 3. ÞÁTTUR.

**Einar Jónasson, læknir.** Einar læknir er fæddur árið 1848, að Harrastöðum í Dalasýslu; faðir hans var Jónas Jóhannesson frá Saurum í Laxárdal í sömu sýslu. Móðir Jónasar þessa var Sigríður Þorsteinsdóttir, Þorsteinssonar skálda, úr Hrútafirði í Húnavatnssýslu. Móðir Einars læknis var Guðný Einarsdóttir frá Harrastöðum; var sá Einar Einarsson skagfirzkur að ætt; hann var talinn



listfengur og fjölhæfur, sagður góður læknir og góður hagyrðingur, en napur og glettinn í kveðskap.—Árið 1873, missti Einar föður sinn; fór hann þá vorið eftir til Vesturheims og settist að í Ontario, en sumarið eftir mun hann hafa flutt til Nýja Íslands. Gjörði hann bólstað, fáar mílur norður frá Gimli og nefndi bæ sinn Hvítanes. Ekki var Einar lengi í Nýja Íslandi, því árið 1881 flutti hann suður til N. Dakota. Settist hann að í Víkur byggð skamt frá Mountain bæ, og stundaði lækningar. Þaðan flutti hann til Alberta árið 1888. Settist hann að á austurbakka Medicine árinnar, litlu neðar en Markerville stendur, þar bjó hann hin næstu missiri, en flutti síðan austur fyrir fell og tók þar land, sem nú er Sólheima-pósthús. Árið 1892 mun Einar hafa flutt burt úr Alberta, fór hann vestur um fjöll í Okanagandalinn í B. C.; bjó hann þar í bæ þeim er Vernon heitir eitt ár. Sumarið 1899, flutti hann austur til Manitoba, og settist um kyrt í Gimli bæ í Nýja Íslandi, og hefir verið þar síðan.—Einar læknir er tvíkvæntur; fyrir kona hans hjet Sigurbjörg Bjarnadóttir ættuð úr Húnaþingi, systir Samsonar Bjarnasonar, bónda í N. Dakota.—Seinni kona Einars heitir Jónína dóttir Sigfúsar bónda Ólafssonar í Dakota, og mun friðdómari Guðm. Björnsson hafa gefið þau í hjónaband; ætla jeg, að sú hafi verið hin fyrsta borgaralega hjónavígsla meðal Íslendinga í því hjeraði og þótti það fyrn mikil.—Eigi er mjer kunnugt, að Einari yrði barna auðið með fyrri konu sinni, en með seinni konu sinni, hefir hann eignast 9 börn. Einar læknir er vel skýr maður og lipurmenni, stilltur og djúphygginn; lipur hagyrðingur er hann, og kippir honum þar um í kyn Harrastaða-ættarinnar, en glettinn og napur þótti hann á stundum í kviðlingum sínum, og þóttust sumir kulda af kenna, einkum hinir stærri menn og þótti sjer tíðum nærri höggvið í kveðskap hans;

myndi jeg geta dregið fram sönn dæmi þess, ef ekki brysti heimild til.—Einar hefir stundað smáskamtalækningar og farizt það vel, þótti hann heppinn og hjálpfús læknir, og var okkur Albertabúum hin mesta eftir sjá að honum, er hann flutti burtu. Einar er maður stál-minnugur og fjölfróður; dulur er hann og sein-þekktur, en líklegt þykir mjer, að jafnaðarstefnan sje honum kærust.

## 4. ÞÁTTUR

**Benidict Ólafsson**, frá Eiðstöðum í Blöndudal í Húnavatnssýslu. Ólafur faðir hans var Jónsson Jónssonar frá Steiná í Svartárdal. Jón sá var mikilmenni sinnar tíðar, og er Steinár- ættin talin merk og mannmörg, Jón á Steiná átti 23 börn og komust flest til fullorðins ára ; voru þeir synir hans : Jón á Eldjárnsstöðum, Ólafur á Eiðstöðum, Árni á Skottustöðum, Krákur í Steinargerði, Bjarni á Kúfustöðum—(,,hái",að auknefni), og annar Bjarni dó ógiftur, og Benidict á Rútsstöðum í Svínadal. Flestir voru þeir bræður atgjörvismenn, en þó þóttu þeir Jón á Eldjárnsstöðum og Ólafur á Eiðsstöðum fyrir þeim um flesta hluti ; báðir voru afburðamenn um karlmensku og harðræði, vel viti bornir menn, þótt mentunin væri á lágu stígi í þá daga og dugnaðar og risnu menn, og stóðu bú þeirra með rausn og velgengni.—Ólafur varð gamall maður og hjelt risnu til dauðadags. Móðir Benidicts hjet Sigurbjörg og var Tómásdóttir, hin ágætasta kona. Börn þeirra voru: Benidict; Jón bóndi á Brekkukoti og Lýtingsstöðum í Skagafirði; Bjarni bóndi að Stafni í Svartárdal; Ólafur bóndi á Guðrúnarstöðum í Vatnsdal, og ein dóttir, sem Íngiríður hét.— Benidict ólst upp hjá foreldrum sínum; rúmlega tvítugur kvongaðist hann, Hólmfríði Bjarnadóttur, hún var vatnsdælsk að ætt; hún var hin mesta snildarkona og vel að sér gjör um flesta hluti, vitur

kona og vel skáldmælt. Benidict var með föður sínum þangað til Ólafur dó. Byrjaði hann þá búskap á föðurleifð sinni og bjó þar nokkur ár. Þaðan flutti hann kringum 1870 norður til Skagafjarðar, að bæ þeim sem Tunguháls er nefndur, og bjó þar tvö ár. Þaðan flutti hann að Breiðagerði í sama hrepp og bjó þar eitt eða tvö ár. En vorið 1874 brá hann búi og bjóst vestur um haf; var þá útflutningur af Íslandi á hæsta stígi; var sá vesturfarahópur einn hinna stærstu. Í Ontario staðnæmdist flokkurinn um sinn. En eigi leið á löngu, áður flokkurinn sendi menn til landskoðunar; völdu þeir nýlendusvæði á vesturströnd Winnipeg-vatns; flutti þá meiri hluti flokksins þangað, og var það um haust. Benidict settist þar að og nam þar land; þar missti hann konu sína. Börn þeira Benidicts og Hólmfríðar voru: Bjarni, bóndi í Mountain bygð N. Dakota; Ólafur, Jón og Sigurbjörg, og koma þau öll við þessa sögu. Benidict kvændist í annað sinn, hjet sú kona Björg Torfadóttir austurlensk að ætt. Þegar mannfluttningarnir hófust frá Nýja Íslandi til N. Dakota, flutti Benidict þangað, og nam land norður af Mountain-bæ. Með seinni konu sinni átti Benidict eina dóttir barna, Hólmfríði að nafni, sem nú er gift kona í Winnipeg.— Til Alberta flutti Benidict árið 1888, settist hann þá að á ómældu landi, að austanverðu við Medicine-ána mílu ofar en Markerville nú er, og nam það land síðar. Þar bjó hann mörg ár, unz hann ljet af búnaði og seldi landið; var hann þá búinn að missa seinni konu sína. Var hann þá hin næstu missiri hjá Ólafi syni sínum, þangað til hann flutti til Manitoba, og var eftir það ýmist hjá Bjarna syni sínum, eða Hólmfríði dóttur sinni, og hjá henni dó hann; ætla eg hann hafi þá verið 70 ára. Benidict var snyrtimenni og hugljúfi hvers manns; hann var vel greindur glaðlyndur og skemmtinn,

og þótt hann—eins og þá var um flesta— hefði farið því nær algjörlega á mis við alla mentun, var hann fyndinn og orðheppinn, því hann, eins og Stefán skáld kvað í eftirmælum eftir hann: ,,Týndi upp óboðinn orðsnildin þá", ,,og notaði þær svo við tækifærin:" ,,Í fyndnum og dverghögum orðum." Á yngri árum var hann talinn söngmaður með afbrygðum; unni hann mjög íslenzkum tvísöng, og engin skemtun hygg eg honum hafi verið jafn hugðnæm og sönglistin og það til dauðadags.

## 5. ÞÁTTUR



Bjarni Jónsson.

Bjarni er Skagfirðingur að ætt, sonur Jóns Árnasonar á Fjalli í Sæmundarhlíð; var sú ætt--Fjallsættin — talin ein af hinum merkustu ættum Skagafjarðar og all-fjölmenn. Móðir Bjarna var Guðbjörg Evertsdóttir Jónsonar skagfirskur að ætt. Bjarni átti fjögur systkyni. Hálfbróðir hans Jón Guðmundsson og þrjár systur, allar dánar. Þau kona Bjarna, Þorbjörg Jóhannsdóttir Stefánssonar á Heiði í Gönguskörðum, voru bræðrabörn, og þeir

séra Sigurður Stefánsson í Vigur og Stefán kennari Stefánsson. Móðir Þorbjargar var Ingibjörg Sigurðardóttir, systir Ólafs umboðsmanns í Ási í Hegranesi. Bjarni og Þorbjörg hafa eignast 8 börn og lifa fimm þeirra, þrír synir og tvær dætur. Jón Ólafur, elsti sonur þeirra, hefir tekið land, skamt frá föður sínum, og er með honum. Annar sonur þeirra Jóhann Sigurður, er giftur Guðbjörgu Lilju Kristinnsdóttur og býr með tengdaföður sínum, en hefir numið land í grend við föður sinn. Þriðji sonur þeirra, Vilhjálmur Stefán, keypti land austur af Markerville. Dætur þeirra tvær Sigurlaug og Guðbjörg eru heima hjá foreldrum sínum. Bjarni flutti vestur um haf árið 1883; fór hann til N. Dakota og settist að í Víkurbyggð, nálægt Mountain. Ekki tók Bjarni þar land, enda var til þess fá tækifæri; sætti hann atvinnu hjá bændum, þau fimm ár, sem hann dvaldi í Dakota. Vorið 1888 flutti hann til Alberta. Bjarni var sem fleiri nálega fjelaus þegar hann kom til Alberta;átti eina kú og eldastó til hálfs við Sigurð J. Björnsson og lifðu þeir saman um sinn. Urðu þeir sem fleiri að fara suður til Calgary, að leita sér atvinnu, en ljetu fjölskyldurnar eftir nyrðra. Vann Bjarni þá stöðugt frá því í ágústmánuði til þess vorið eftir, að hann kom norður að vitja konu og barna. Næsta sumar vann hann enn í Calgary, og tók þá konu og börn suður;mun þá hafa verið í Calgary kring um tvö ár. Eptir það flutti hann norður og nam þá land, þar sem hann hefir búið síðan; er það á vesturbakka Medicine árinnar gegnt landi Benidicts Ólafsonar. Bjarna hefir farnast vel, byggt sér snoturt heimili og komið upp mannvænlegum börnum.

## 6. ÞÁTTUR

**Sigurður Árnason** Jónssonar, ættaður af Akranesi við Borgarfjörð. Kona hans hjet Karítas Ólafsdóttir frá Reykjum í Miðfirði í Húnavatnssýslu. Börn eignuðust þau átta, og eru fjögur þeirra á lífi. Á Íslandi var Sigurður síðast í Norðurárdal í Borgarfjarðarsýslu, og flutti þaðan til Ameríku, að sögn konu hans árið 1876, en mjög er það óvíst; hitt ætla jeg líkara, að hann flytti vestur árið 1874, en hvað sem réttast kann að vera um það, þá flutti Sigurður til Nýja Íslands og nam þar land. Árið 1880 flutti hann úr Nýja Íslandi suður til Dakota og nam þar land, skammt norður af Mountain-bæ. Þar bjó hann til árið 1888, að hann flutti til Alberta og settist að á ómældu landi, skammt austur frá Markerville; þar var hann hið fyrsta missiri, en færði svo bústað sinn austur nálægt Burnt Lake og festi sér þar land. Sigurður var hniginn á efra aldur, er hann flutti til Alberta, var hann því orðinn þá síður fær en fyrri, til að mæta ýmsum þeim kjörum, sem hinir fyrstu landnemar í Alberta áttu við að búa. Fyrst um sinn dugði það honum, að hann fremur sumum öðrum, kom með dálítil efni frá Dakota; en hvortveggja var, að hann þá var ekki fær um að sæta ýmislegri atvinnu, og hitt, að hann hafði þunga fjölskyldu fyrir að sjá-svo honum eyddist brátt fjeð; var hann í þröng mikilli um nokkurn tíma; en með iðjusemi og hjálp elstu dóttur sinnar, rétti hann svo hag sinn, að honum leið vel síðustu ár æfi sinnar, og ljet konu og börnum eftir góðan fjárstofn, þegar hann dó.

## 7. ÞÁTTUR

**Sigurður Björnsson,** Jónssonar frá Skynþúfu í Skagafirði. Móðir Sigurðar hjet Ásdís Þórðardóttir, eyfirzk að

ætt, þótt mörg af börnum þeirra Þórðar væru í Skagafirði. Kona Sigurðar var Hólmfríður Gunnlögsdóttir frá Hofsstöðum í Viðvíkursveit; Gunnlögur sá, var hinn þriðji maður frá Ólafi brita á Hólum í Hjaltadal. Systir Hólmfríðar er Guðlaug kona Björns óðalsbónda á Sveinstöðum í Tungusveit, Þorkelssonar á Svaðastöðum í Blönduhlíð. Sigurður bjó á Marbæli í Óslandshlíð mörg ár, góðum búskap, áður hann fór vestur. Árið 1883 flutti hann til Ameríku; settist hann að í N. Dakota í Vikurbyggð, og var þar, til þess er hann flutti til Alberta 1888, og settist að á ómældu landi austanverðu við Medicine ána, 4 mílur frá Markerville, og nam þar land nokkrum árum síðar. Á síðustu búskapar árum Sigurðar, heima á Íslandi, munu efni hans hafa gengið til þurrðar; víst var það, að hann var nær því fjelaus, er hann kom til Alberta; hann var þá kominn á efri ár, og lúinn og slitinn af sífelldu erfiði og eljun, heima á gamla landinu; hafði hann verið kappsmaður, og lítt hlífzt við sjálfan sig nje aðra; var því síst að undra þótt nýbyggjalífið í Alberta, með öllum sínum annmörkum og erfiði, yrði honum tilfinnanlegt; en hafði verið iðju- og reglumaður, og var það enn. Hólmfríður kona hans var myndarkona stjórnsöm og þrifin og engi eftirbátur hans að bæta hag þeirra; leið því eigi á löngu, áður efnahagur hans tók svo framförum, að kalla mátti, að honum liði vel. Vorið 1907, seldi hann land sitt og eignir og flutti til Sask.; þar dó hann eftir fárra mánaða dvöl um 80 ára gamall. Börn áttu þau mörg, sem dóu öll í æsku. Sigurður átti eina laundóttur, sem Sigríður heitir. Fósturbörn tóku þau og ólu upp til fullorðins ára. Um móður ætt Hólmfríðar er mjer það eitt kunnugt, að móðir hennar hjet Geirlög Eiríksdóttir ættuð úr Blöndahlið.

## 8. ÞÁTTUR

**Guðmundur Jónsson**, frá Sköruvík á Langanesi. Hann var sonur Jóns læknis á Syðra Lóni á Langanesi. Móðir hans var Guðlaug, en um ætt hennar er mjer alls ekkert kunnugt. Guðmundur var tvíkvæntur. Fyrri kona hans hjet Guðrún og var Jónsdóttir. Þau eignuðust 11 börn; synir þeirra voru: Ólafur Goodman, Sigfús Goodman, Aðaljón---dó af slysum fyrir fám árum---Árni—drukknaði árið 1888,—Sophonias í Grafton, N. Dakota. Dætur þeirra voru: Ásdís, gift Aðalmundi Guðmundarsyni í Grafton, Margrjet, gift kona í Grand Forks; Berglaug, gift Tryggva Ólafssyni í Argyle, Þuriðr, dó ógift, tvær dóu ungar. Guðmundur reisti bú á Syðra-Lóni, eptir föður sinn liðinn, en bjó þar eigi lengi. Flutti hann þá að Sköruvík og bjó þar lengi síðan. Þaðan flutti Guðmundur til Vesturheims árið 1886, eða máske ári síðar. Sótti Ólafur sonur hans hann heim til Íslands; hefir Guðm. að líkum farið til Grafton, en dvalið þar skamma stund, áður hann flytti til Calgary, sem mun hafa verið 1887, þó veit jeg þetta eigi víst; en til Calgary er hann kominn vorið 1888 og búinn að festa sjer land, suður af Tindastóll við Medicine ána. Fyrri konu sínu missti Guðmundur heima á Íslandi, en sumarið 1888, mun hann hafa giftzt í annað sinn, þó er það ekki víst. Kona sú hjet Hólmfríður og var Jónsdóttir, Jónssonar, Sigurðssonar frá Einarstöðum í Reykjadal; móðir hennar var Helga Jónsdóttir Stefánssonar prests að Helgastöðum. Þau hjón Guðmundur og Hólmfríður, voru hnigin á efra aldur, og varð ekki barna auðið. Guðmundur var merkur maður, hafði skýrar og ljósar gáfur, var fróður um margt, vandaður og hreinskilinn.

---

1) Ennfremur hefi jeg heyrt, af skilríkum manni, að hann ætti dóttur Þrúði að nafni og væri hún gift Einari Kjartanssyni borgfirðskum að ætt.

Fátækur var hann lengst æfi sinnar, en í afhaldi hjá öllum sem höfðu kunnleika af honum, og hjelt virðingu sinni til dauðadags.

## 9. ÞÁTTUR

**Sígfús Goodman**, sonur Guðmundar Jónssonar frá Sköruvík og fyrri konu hans Guðrúnar Jónsdóttir. Um systkyn Sigfúsar má sjá í þættinum af Guðmundi föður hans. Kona S. Goodman hjet Hólmfríður og var Guðnadóttir, Jónssonar á Uppsölum í Eyðaþinghá; móðir hennar var Sígríður Jónsdóttir, systir Hólmfríðar konu Guðmundar Jónssonar frá Sköruvík. Börn þeirra Sigfúsar og Hólmfríðar voru sex, og lífa þrjú af þeim; einn sonur Guðmundar, Emers, nam land austur í Foam Lake nýlendu, Sask. Tvær dætur, Sigfríður Concordia og Olavia Gambria. Sigfús Goodman flutti vestur til Alberta frá Grafton, N. Dakota, með Ólafi bróður sínum og var með honum um hríð í Calgary, en flutti norður í nýlenduna sumarið 1888, og nam land litlu austar en faðir hans; hann tók einnig land með forkaupsrjetti og hafði því hálfa section yfir að ráða. Voru það aðeins þeir, sem þá komu um sumarið og haustið, og sem settust að á mældu landi, er gátu notað sjer rjett þann, því 1. janúar 1889 var hann felldur úr gildi. Sigfús bjó á löndum sínum til þess árið 1907, hafði hann þá misst konu sína. Brá hann þá búi og seldi lausafje en leigði löndin; var hann nokkra stund eftir það hjer í byggðinni hjá vinum og kunningjum; fór síðan austur til Sask. til Guðmundar sonar síns og er með honum, ásamt eldri dóttur sinni. Hólmfríður kona hans var vel viti borin kona og menntuð. Eftir það þau fluttu hingað, var hún þjáð af vanheilsu stórkostlega. Sigfús Goodman, er drengur góður, vel

greindur maður, stilltur og gætinn og dulur í skapi, virtur og vel metinn að maklegleikum.

## 10. ÞÁTTUR.

**Jóhann Björnsson**, póstafgreiðslumaður við Tindastóll-pósthús, er fæddur 31. júlí 1856, að Syðri Mælifellsá í Skagafirði. Faðir hans var Jónsson, Þorsteinssonar á Hofi í Hjaltadal. Móðir Jóhanns var María Einarsdóttir Böðvarssonar sem lengi bjó á Veðramóti og Breiðsstöðum í Gönguskörðum. Þau Björn og María áttu 14 börn; af þeim náðu fullorðinsaldri: Jóhann, Ófeigur, Helgi, Hannes, Magnús; af bræðrum Jóhanns er einn í Ameríku, Hannes bóndi í N. Dakota, í Eyford-byggð; hinir á Íslandi í Skagafjarðarsýslu; Magnús dáinn. Systur Jóhanns, eru: Ingibjörg gift Einari B. Oddsyni í Ohio; Rósa, gift Páli Pjeturssyni á Breið. Móðuramma Jóhanns var Helga Vigfússdóttir frá Grímsstöðum. Jóhann er þvíkvæntur. Giftist hann fyrst 24. desember 1884, Dýrleifu Sigurrósu Brynjólfsdóttur, og var hún skagfirzk að ætt. Móðir hennar var Valgerður Rafnssdóttir frá Lýtingsstöðum í Tungusveit. Dýrleif dó af barnsförum 9. des. 1885. Jóhann kvæntist í annað sinn 9. desember 1887 Margrjetu Jónsdóttur Pálssonar að Viðvík í Viðvíkursveit. Móðir Margrjetar var Guðrún Helgadóttir, Árnasonar frá Fjalli í Sæmundarhlíð. Systkyni Margrjetar voru 7; Helgi, Páll, Helga, Kristín, Kristrún, Ingibjörg, Sigríður. Þau eru öll á Íslandi, nema Sigríður, kona Þorsteins Þórarinssonar í Winnipeg. Margrjet dó 10. sept. 1904. Þriðja sinn giftist Jóhann 19. apríl 1906, Sigurástu Daðadóttur; Daði var Magnússon, hreppstjóri á Núpi í Haukadal. Daði var laglega hagorður, og vel að sjer; hafði verið kennari og farnast það vel. Bjó hann á Núpi eftir föður sinn. Móðir Sigurástu var

Sigríður Erlendsdóttir, Hannessonar úr Skagafirði; systkyni hennar voru: Daði, bóndi við Reykjavík; Þorsteinn, ógiftur vestur í Dölum; Kjartan Einar, mun vera í Eyjahreppi, en systir hennar er Guðrún kona Ólafs Thorlacins, austur í Manitoba. Sigurást var ekkja eftir Þórhall Jónsson, ættaðan úr Breiðafjarðardölum. Með honum eignaðist hún þrjú börn, sem eru öll á lífi.; son,að nafni Þórhall, suður í Pembina hjeraði N. Dakota, og tvær dætur, sem eru heima á Tindastól, sú eldri: Sigríður Rósbjörg, en hin yngri: Laufey Þuríður. Börn þeirra Jóhanns og Margrjetar fyrri konu hans, eru. Guðrún Jóhanna 20 ára að aldri, nú gift manni af írskum ættum, vestur á Kyrrahafsströnd, og Ólafur Pétur Guðmundur, sem vinnur hjá föður sínum, 18 ára gamall. Jóhann fór um borð á Akureyri til vesturfarar, árið 1883; hjelt hann þá samsumars til N. Dakota og vann þar að bændavinnu, en um veturinn, var hann í West Lynn, og fjekk þar tilsögn í ensku. Sumarið eftir fór hann til Winnipeg og var þar þau missiri. Síðan flutti hann suður til Eyford, N. D. og nam þar land. Þaðan flutti hann vestur til Alberta árið 1888, og setti þar bú saman, sem síðar fjekk nafnið Tindastóll, og hefir búið þar góðu búi síðan. — Jóhann er nýtur drengur, framgjarn og kappsamur, skapstór og hreinskilinn, og hefir ekki kynokað sjer við að segja meiningu sína hverjum, sem í hlut hefir átt; hefir það stundum ekki aflað honum mikilla vinsælda í svipinn, en hlýjan velvildarhug, ætla jeg, að flestir byggðarbúar beri til hans, og er það ekki um skör fram eins og síðar mun sýnt verða.

## 11. ÞÁTTUR

**Jónas Jónsson Hunford,** Rafnssonar á Lýtingsstöðum í Skagafirði. Móðir Jóns þessa var Margrjet Eiríks-

dóttir, Pálssonar, bróður Sveins læknis. Annan son átti Margrjet, Jón á Grindum á Höfðaströnd, Pjetursson Skúlasonar. Var Jón sagður góður hagyrðingur og fjölfróður, en blandinn í lund, sem faðir hans. Dóttur átti Margrjet, er Guðrún hjet, Jónasdóttir, læknis Jónssonar á Syðsta Vatni, hins merkasta manns. Guðrún var gift Sveini Guðmundssyni í Sölvanesi. Bjuggu þau hjón þar lengi.—Guðrún var vitur kona og sköruleg, sem hún átti kyn til. Margrjet Eiríksdóttir, var skörungur mikill, vel gáfuð og skáldmælt. Guðrún hjet móðir Jónasar Hunford Guðmundsdóttir frá Yzta-Gili í Langadal i Húnavatnssýslu. Guðmundur sá var Sveinsson bróðir Sölva og Sigurðar, er fóru vestur um haf. Sölvi gamli var prúðmenni hið mesta og laglega skáldmæltur. Hagmæltir voru þeir synir hans, Sölva gamla á Syðri Löngumýri í Blöndudal, föður þeirra bræðra, Sölvi þó langt framar; hann var spakur að viti og slyngur hagyrðingur, en glettinn og napur í kveðskap. Jónas var launsonur, og átti engi alsystkyn, en hálfsystkyn nokkur; samfeðra voru þau Ólafur, Margrjet og Guðbjörg, öll í Skagaf. Sammæðra átti hann eina systir er Ásta hjet, Jónasdóttir Jónssonar prests að Bergstöðum í Húnarvatnssýslu; bjó sá Jónas í Arnarholti í Stafholstungum í Borgarfirði.—Jónas missti móður sína 4 ára gamall; ólst hann svo upp með föður sínum og stjúpmóður sinni Sigurlaugu Þórðardóttur—sem reyndist honum hin bezta móðir—til fullorðins ára. Á þeim árum voru kotkarlasynir lítt settir til mennta; svo var um Jónas; stafina var honum kennt að þekkju, að öðru leyti varð hann að hjálpa sjer sjálfur. En það kom í ljós, að hann var bókhnýsinn, stundum um of; ekki lærði hann að draga til stafs fram á 14. ár; þá var það, að sóknarprestur hans séra H. Einarsson, síðar prófastur að Undirfelli, gaf honum stafróf og öll skrifáhöld, sagði

prestur, að drengur þessi gæti lært mikið, ef ástæður leyfðu, að veita honum tilsögn, en efnin, sem voru af skornum amti, leyfðu það ekki, og við það varð að sitja.—Þó varð það löngu síðar, að hann fjekk tilsögn í reikningi einn mánuð hjá Guðmundi bónda Jónssyni á Hóli í Svartárdal, sem þá var talinn mestur reikningsmaður í sýslunni og víðar; lærði Jónas hjá honum allan almennan reikning uppað bókstafa reikningi. Löngu síðar fjekk hann dálitla tilsögn í hinum nýja endurbætta söng, dönsku og íslenzkri málfræði. Eigi þótti Jónas atkvæðamaður um neitt og enginn ráðdeildarmaður; sögðu sumir hinna forsjálu, eins og Ingveldur forðum: „að bókvitið og lesturinn hans yrði ekki látið í askann". Árið 1880, kvæntist Jónas Margrjetu Sigurbjörgu Bjarnadóttur frá Stafni í Svartárdal, Ólafssonar á Eiðsstöðum í Blöndudal. Föðurætt hennar er talin hjer að framan; þótti sá ráðahagur Jónasi ofkosta, sem og líka var og áttu þar ýmsir, sjer til vansæmdar, miður góðgjarnan hlut að málum. Bjarni faðir Margrjetar var stilltur og fastur í lund og óhlutdeilinn við aðra, en því sem hann vildi vera láta, fylgdi hann fast. Móðir Margrjetar var Margrjet Jónsdóttir; hún var hin mikilhæfasta kona, og höfðingi í lund, og mun hennar lengi minnzt, fyrir rausn og skörungsskap. Margrjet var dóttir Jóns Sigurðssonar Jónssonar í Stafni; höfðu þeir feðgar búið þar hver fram af öðrum; voru þeir bræður Sigurðarsynir, Jón í Stafni, Jón á Brún og Árni á Torfastöðum, allir atgjörvismenn.—Börn þeirra Bjarna og Margrjetar voru fimm, eitt dó í æsku; fjögur lifa: Margrjet Sigurbjörg, Hólmfríður gift kona í Húnavatnssýslu, Ólafur, er heima á Íslandi og Kristín nú í Selkirk, Manitoba.—Síðustu tvö árin heima var Jónas með tengdaforeldrum sínum í Stafni. Árið 1883, flutti hann til Ameríku, og settist að í N. Dakota, þrjár mílur norður

af Mountain bæ, og dvaldi þar nærfellt fimm ár; þaðan flutti hann sig til Alberta vorið 1888. Bjuggju þeir Sigurður Björnsson og Jónas saman fyrsta árið. Eftir það flutti Jónas á land það,sem hann hefir verið á síðan,austanverðu við Medicine ána, fimm mílur upp frá Markerville. Jónas kom nær því fjelaus til Alberta og hefir aldrei rjett svo hag sinn, að honum liði vel. Hann varð í mörg ár að sæta atvinnu á ýmsum stöðum til að geta framfleytt fjölskyldu sinni; var þá M ırgrjet ein heima með barnahópinn, sem þá voru öll ung; og sýndi þá d emafátt þrek og þrautseigju, sem jafnan síðan.— Þau hjón hafa eignast 12 börn; 10 lifa,elzta dóttir þeirra Margrjet, er gift manni af skozkum ættum. Elzti son þeirra Bjarni Þórir, hefir tekið land á sömu section og faðir hans, en er með foreldrum sínum. Önnur börn þeirra eru : Sigurlaug, Þórður Jón,Benidict Ólafur,Stephan Guðmundur, Sigríður Björg, Hallfríður Sigurbjörg, Hannes Hafstein, Jónas Þorgrímur; 2 dætur misstu þau, önnur 21 ára, hin 20.—Hólmfríður dáin 24 oct. 1908.—Þegar þetta er ritað, er Jónas 61 ára gamall.

## 12. ÞÁTTUR.

**Benidict Jónsson Bárdal**, Jónsonar frá Mýri í Bárðardal. Hans móðir: Aðalbjörg Davíðsdóttir. Systkyı. Benidicts voru: Jón, Gísli, Davið, Kristján, Aðalbjörg, Jóna, Guðfinna, Herdís, Guðný.—Benidict ólst upp með föður sínum fram undir tvítugs aldur; fór hann þá til Guðbjargar ekkju séra Þorsteins á Yztafelli, og vann fyrir hana í 11 ár. Eftir það fór hann að búa á Vikistöðum í Fnjóskadal. Kona Benidicts var Sezelía Pálsdóttir, Árnasonar söðlasmiðs úr Fljótum,Pálsonar, prests að Myrká í Hörgárdal; ætla jeg að séra Páll væri sonur Árna biskups á

Hólum í Hjaltadal. Móðir Sezelíu var Dýrleif Björnsdóttir; og veit jeg ei um ætt hennar meir. Hálfbróðir Sezelíu var Árni, er síðar verður getið, en hvert hún átti fleiri systkyni er mjer ekki kunnugt.—Frá Vikistöðum fór Benidict til Vesturheims árið 1873;fór hann til Ontario og dvaldi þar meir en ár; þaðan flutti hann til Nýja Íslands haustið 1875, bjó hann þar í þrjú ár; eftir það fluttir hann suður til N. Dakota; rjeðst hann þar í vinnu hjá norskum bónda skammt frá Pembina,og var þar árlangt. Eptir það flutti hann upp í Garðar-byggð, og nam þar land; á því landi bjó hann í átta ár. Þaðan flutti Benidict árið 1888 til Alberta, og nam land suðaustur frá Tindastoll P. O.; á því landi bjó hann ellefu ár. Börn þeirra Benidicts og Sezelíu sem náðu fullorðins aldri, voru fimm, fjórir bræður og ein systir: Júlíus, Jón Páll, Helgi og Árni. Tóku þeir allir land að vestanverðu við Medicine ána tvær mílur suður af Evarts P.O. Systir þeirra Guðlín, giptist Baldri, elsta syni Stefáns skálds. Þegar Benidict hætti búskap á landnámsjörð sinni, flutti hann á land Júlíusar sonar síns, og bjó þar með fjölskyldu sinni hin næstu missiri, þar misti hann konu sína, og hætti hann þá alveg búskap, var þó þar um hríð, en fór svo til sona sinna Jóns Páls og Helga og dvaldi hjá þeim.

Vel var Benidict farið um margt. Hann var iðjumaður mikill, hagsýnn og lagvirkur. Sezelía kona hans var vel að sér gjör um flest; þrifnaðar og hirðu kona; jafnvel þótt Benidict kæmi hingað með dálítil efni, þá áttu þau hjón opt í vök að verjast fyrst eptir að þau fluttu hingað. Hinn versti þröskuldur á leið Benidicts var það, að hann í félagi við Sigurð J. Björnsson og Gísla Dalmann bróður sinn, tók hjörð af sauðfje á leigu haustið 1889; það haust voru heyföng manna ljeleg og rýr, og þótt Benidict hefði hey nokkur, dugðu þeir samlagsmenn hans miður, svo

við lá, að fjeð dræpist niður fyrir þeim; varð það þá, að Sigurður Jósúa kom Benidict til, að taka við fjenu og öllum samningum við eigandann. Þó mundi þetta hafa vel dugað, hefði eigi annað verra ákomið. L. M. Zage, sá er fyrr var nefndur, tók ári síðar sauðfje á leigu; gætti hann þess slælega, og týndist það með ýmsum hætti, svo saman gekk drjúgum fjártalan. Benidict var í nágrenni við Zage, og gekk fjeð saman, þó sjaldan; kvað þá Zage, að sumt af fje sínu, væri komið saman við hjörð Benidicts, þótt hann gæti eigi leitt rök til; fór þá svo, að hann tók með ofbeldi og yfirgangi meira hluta af hjörð Benidicts og hafði á burt; treystist Bendict eigi að rjetta sinn hlut gegn þessum ójöfnuði, þótti sem var, einskis illt óvænt af Zage, og fjekkzt engin leiðrjetting þess máls. Galt Benidict þessa lengi síðan.

## 13. ÞÁTTUR.

**Gísli Jónsson Dalmann.**
**Karólína Dalmann.**



Gísli var albróðir Bendidicts Bárdal, og sjest ætt þeirra hjer að framan, í þætti af Benidict. Gísli ólst upp með foreldrum sínum í Mjóvadal, fram undir þrítugt. Þá fluttist hann suður í Hreppa með Ásmundi nokkrum Benedictssyni frá Störuvöllum, og var þar eitt ár. Gísli festi þar ekki

yndi og fór aptur norður til átthaga sinna í Bárðardalinn. Kona Gísla hjet Karólína. Hún er greind kona og vel skáldmælt, og unni mjög menntun og fróðleik. Hún var dóttir þeirra hjóna Jóns Þorgrímssonar og Elínar Halldórsdóttur, sem bjuggju á Litlu - Laugum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu. Langafi Karólínu í móðurætt hjet Nikulás Buck, norskur að ætt; hann fór til Íslands og gjörðist verzlunarmaður á Húsavík; átti hann fyrir konu Karinu dóttur Björns Halldórssonar; Halldór var síðastur biskup á Hólum í Hjaltadal. Dóttir Nikulásar og Karínar, var Dorothe, móðir Elínar, móður Karólínu Dalmann, og er hún því fimmti maður frá Halldóri biskupi á Hólum. Annan son átti Halldór biskup, sem Björn hjet, hans son var Halldór prófastur faðir sjera Björns í Laufási, föður herra Þórhalls biskups yfir Íslandi.— Þriðji sonur Halldórs biskups var Brynjólfur, faðir Þóru móður Péturs biskups yfir Íslandi.—Þau Gísli Dalmann og Karólína giptust vorið 1873, og fóru samsumars til Ameríku. Fluttust þau til Bandaríkjanna og settust að í Milwaukee í Wisconsin ríki. Þar voru þau þangað til í júlí 1880, að þau fluttu til Norður-Dakota í nánd við Garðar; þar bjuggju þau til þess árið 1888, að þau fluttu vestur til Alberta, og námu land 4 mílur suðaustur frá Tindastól. Á því landi bjuggu þau fjögur ár, en vorið 1892 fluttu þau áleiðis til Vernon í B. C., á þeirr ferð dó Gísli í Calgary 23. sept. Eptir lát Gísla, hjelt Karólína með börn sín vestur til Vernon og var þar fjögur ár, en flutti síðan austur til Winnipeg, hvar hún hefir búið síðan. Þeim hjónum varð átta barna auðið, af þeim lifa fjórir synir, allir fulltíðamenn; tveir þeirra eru timbursmiðir, einn er málari, en sá fjórði vinnur við hljóðfæraslátt (leikur á hljóðfæri). Allir eru þeir sagðir myndarmenn og vel metnir og sýnir það bezt, hve mikilhæf kona

Karolína Dalmann er. Allir voru þeir börn að aldri er þeir misstu föður sinn, og eiga því móður sinni mikið upp að ynna.

## 14. ÞÁTTUR

**Stephan G. Stephansson, skáld.** Stephan er Eyfirðingur að föðurætt, en Skagfirðingur að móðurætt. Hann var fæddur 3. dag októbermánaðar 1853 að Kirkjuhóli í Skagafirði. Faðir hans var Guðmundur Stephansson frá Kroppi í Eyjafirði, en móðir hans var Guðbjörg Hannesdóttir, Þorvaldssonar að Reykjarhóli í Skagafirði. Ekki er mjer kunn ætt Stephans lengra. Stephan ólst upp á Kirkjuhóli til þess hann var átta ára; fluttu þá foreldrar hans að Syðri Mælifellsá, hvar þau bjuggju tvö ár. Eptir það færðu þau bú sitt að Víðimýrarseli, það er austanvert við Stóra-Vatnsskarð og bjuggju þar nokkur ár. Þaðan flutti Stephan með foreldrum sínum, austur í Þingeyjarsýslu. Fimmtán ára fór hann vistráðum til Jóns bónda Jónssonar í Mjóvadal og var hjá honum í þrjú ár. Sumarið 1873



flutti hann ásamt foreldrum sínum vestur um haf til Bandaríkjanna og settist að í Wisconsin ríki. Í norðaustur hluta ríkisins nam hann land, í Shawano Co. Var land það allt skógivaxið og harla torsótt fátækum frumbýlingum til yrkingar. Það eitt var því til úrræða, að vinna burtu á sumrum, til lífsnauðsynja, en fella skóg á vetrum. Við slíka örðugleika barðist Stephan þangað til árið 1880, að hann flutti til Norður-Dakota, var þá faðir hans dáinn; settist Stephan að í nánd við Garðar i Pembina Co. og nam þar land; bjó hann þar níu ár; árið 1889 flutti hann vestur í Albertafylki: nam hann þar land við Medicine ána austanverða þrjár mílur upp frá Markerville, hvar hann hefir búið síðan. Árið 1889 kvæntist Stephan ungfrú Helgu Sigríði Jónsdóttur frá Mjóvadal, Jónssonar frá Mýri í Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Móðir Helgu var Sigurbjörg Stephansdóttir, systir Guðmundar föður Stephans skálds. Systir Stephans er Sigurlaug, kona Kristins Kristinssonar bónda við Markerville.— Bróðir Helgu er Jón Jónssn bóndi við Garðar fyrrum þingmaður Norður-Dakotaríkis.— Þeim hjónum Stephani og Helgu hefir orðið átta barna auðið. Af þeim lifa þrír synir: Baldur, Guðmundur og Jakob, og þrjár dætur: Stefaný, Jóný og Rósa. Tveir synir þeirra eru dánir: Jón misstu þau ungan í Dakota; mun það hafa tekið mjög á þau hjón, eins og sjest af ljóðum þeim, er Stephan kvað eftir hann. Gest, 16 ára, gott mannsefni og mannvænlegan misstu þau, með þeim sorglega dauðdaga, að lopteldur sló hann skammt frá húsi þeirra í júli 1909. Það var raun mikil þeim hjónum, sem von var, en þau voru samtaka í því sem öðru, að bera harm sinn í hljóði; kom þá fram, það sem jeg ætla að hafa verið markmið Stephans: aldrei að æðrast, aldrei að kvarta. Ekki átti Stephan kost á, að geta fengið neina regulega menntum á ung-

dóms árunum. Foreldrar hans voru fátæk og höfðu því fullt í fangi, að mæta hinum óhjákæmilegu kröfum lífsins, þótt víst megi ætla, að eigi hafi þeim dulizt hæfileikar hans; og dýrmætt myndi honum hafa þótt á þeim árum, að eiga kost á slíkri uppfræðslu, sem nú er lögð í skaut hinnar yngri kynslóðar; snemma hefir að líkindum sú skoðun fleytt honum áfram og uppávið, að ákvörðun mannlífsins væri, að heyja stríð við hin mótstæðu öfl, og þroskast að öllu því, sem gjörir manninn meiri og betri. En þótt Stephan á ungdóms árunum, ætti ekki völ á neinni verulegri aðstoð til menntunar, þá mun hann þó hafa að mestu tilsagnarlaust,lært að lesa dönsku, meðan hann dvaldi í Víðimýrarseli, en eptir að hann kom að Mjóvadal, byrjaði hann með aðstoð sóknarprests síns, séra Jóns Austmanns, að lesa ensku og komst talsvert niður í henni, sem síðar kom honum að góðu haldi.— Eptir að Stephan kom til Ameríku, var honum ekki til setu boðið við bókmenntastörf, frumbýlings erfiðleikarnir hafa mætt honum í fyllstu mynd, ekki síður en öðrum; fleirum sinnum hefir hann sezt niður á auðn, og lagt fram viljann og kraptana, að ,,höggva í örðugleikann stig", en það er sem fleira, sjerkennilegt um Stephan, að það er eins og stritið og starfið, stríðið og baráttan fyrir lífstilverunni, hafi stælt hans andlegu vöðva. Án þess að menn viti gjörla; nær hann hafði tíma eða tóm til, hefir hann auðgað sig svo að menntun og þekkingu í enskum bókmenntum, að fáir muna þeir tiltölulega af Vestur-Íslendingum, sem standi honum framar um þau efni.— Mjög ann Stephan ættjörðu sinni, þjóðerni og móðurmáli, sem gjör sjest af kvæðum hans. Í skáldafylkingu hinnar íslenzku þjóðar stendur Stephan framarla; sem skáld hefir hann getið sjer þann orðstír, sem óbrotgjarn er í Bragatúni með ljóðasafni því, er

hann nefnir „Andvökur", í þremur bindum, hvert um 20 arkir að stærð. Eigi mun það ofsagt, að skáldverk þetta sje eitt hið stærsta og auðugasta, sem nokkur íslenzkur leikmaður hefir innt af hendi. Oftak væri það mjer, að segja nokkuð ákveðið um skáldskap Stephans; hann hefir líka fengið ritdóma þeirra manna, er dómgreind eiga að hafa. Sagt hefir verið um ljóð hans, að þau væru þung og torskilin. Til þess ætla jeg, að eigi sjeu nægar ástæður. Hitt held jeg sje aðalorsökin, að fáir leggi þá rækt við lestur þeirra, sem nauðsyn er til að þekkja og skilja skáldið í ljóðum hans. Svo velur Stephan hið bezta úr málinu og jafnvel nýyrði, til að klæða hugsanir sinar í; mun þetta tvennt valda því, að mönnum finnst skáldið ekki ætíð fara alfaraleið. Engum getur dulizt það, að skáldskapur Stephans ber ljósan vott um óvanalega mikinn frumleik og andlegs sjálfstæði; málið er hið bezta á kvæðunum, hreint og kjarnmikið, sem sannar, að eigi er það ofkveðið: „Þín fornöld og sögur mjer búa í bann."

Þá raunleika hefir Stephan gefið af sjer, að vera drengur hinn bezti. Meðan byggð þessi átti alls kostar örðugt á framfaraveginum, var hann jafnan meðal hinna fremstu að vekja áhuga fyrir fjelagslegum framförum, og styrkja til þeirra með ráði og dáð. Meðan við vorum veikir var hann okkar bezti forvígismaður, enda þótti þá varla ráð ráðið utan hann væri aðspurður. En bezt þekkist Stephan á heimili sínu. Þeir sem lengi hafa þekkt það, hljóta að viðurkenna, að það er að flestu leyti sönn fyrirmynd; samúð og hlýleiki meðal fjölskyldunnar hefir ætíð verið einkenni þess, og sem hefir breitt blessun og frið yfir hið ýmsa mótdræga, sem mætt hefir, og torvelt ætla jeg sje að finna þau hjón, sem betur taki höndum saman til að gjöra heimili sitt aðlaðandi jafnt

fyrir alla.— Stephan er seinþekktur maður, en því lengur sem maður þekkir hann, því meiri virðingu ber maður fyrir honum, því hlýrra verður manni til hans og þess sárara verður manni um hann.

## 15. ÞÁTTUR

**Jón Pjetursson**, Eyjólfssonar á Eiríksstöðum í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Kona Eyjólfs hjet Þorbjörg; bjuggu þau á Eiríksstöðum við rausn mikla, um langan tíma. Móðir Jóns var Málmfríður Jónathansdóttir, Jónssonar bróður Jóhannesar á Breiðavaði; sonur Jóhannesar var Jónas, er lengi bjó á Breiðavaði eptir föður sinn. Systir Jónasar var Ingibjörg, móðir Maríu konu Guðmundar bónda Gíslasonar á Bollastöðum, hins merkasta manns. Amma Jóns Pjeturssonar var Margrjet, systir þeirra bræðra, Þorleifs í Stóradal og Þorkels á Fjalli; var sú ætt kölluð Fjallsætt. Kona Jóns hjet Ingunn, dóttir Ólafs á Steiná í Svartárdal; var Ólafur kallaður Oddsson, en var sagður launsonur Sigvalda prests Snæbjarnarsonar í Grímstungu. Ólafur bjó lengi á Steiná; var hann mikilmenni og drengur hinn bezti í allri raun. Móðir Ingunnar, var Sigríður Guðmundsdóttir frá Hamri í Hegranesi í Skagafjarðarsýslu. Á Steiná mun Jón hafa byrjað búskap í mótbýli við tengdaföður sinn, en flutizt þaðan eigi löngu síðar, að Kolgröf í Skagafirði og búið þar, þangaðtil árið 1876, að hann flutti vestur um haf; fór hann þá til Nýja Íslands og nam land norður við Íslendingafljót, og bjó þar fjögur ár, en flutti svo þaðan 1881 til N. Dakota; þar nam hann land, og bjó á því átta ár. Til Alberta flutti Jón árið 1889, og nam strax land suður af Sólheima pósthúsi; á því landi bjó hann 16 ár, eða þangað til árið 1906, að hann ljet af

búnaði, sökum aldurs og vanheilsu þeirra hjóna. Seldi hann þá land sitt og lausafje, og rjeðst norður til Edmonton, áður hafði Jón sonur hans flutt þangað. Jón Pjetursson keypti sjer þar landeign í bænum og byggði á henni, og hefir búið þar síðan. Jón hefir verið atkvæðamaður um flest; þrek hans og kjarkur, samfara ráðdeild og dugnaði, hefir borið þann ávöxt, að hann sýnist hafa haft hald á lífskjörum sínum, fremur mörgum samtíðarmanna sinna, enda hefir Jón haft öruggan og tryggan förunaut, sem hefir stutt hann með dáð og dug, og það mun láta nærri sönnu, að Ingunn hefir verið Jóni, það sem Bergþóra var Njáli. Allstaðar hefir hagur þeirra blómgast og allstaðar hefir hús þeirra staðið sem í þjóðbraut, opið fyrir öllum, háum sem lágum með stakri alúð og gestrisni; má fyllilega ætla, að þeim hjónum veitist sú ánægja, að vera veitandi til dauðadags. Þau Jón og Ingunn hafa eignast sex börn, af þeim eru á lífi tvö: Jón og Málmfríður, gipt Guðmundi Einarssyni í N. Dakota.

## 16. ÞÁTTUR.

**Jósef Stefánsson.** Jósef er Vopnfirðingur í báðar ættir. Faðir hans var Stefán Einarsson frá Syðri Vík í Vopnafirði í Norður-Múlasýslu. Móðir Jósefs hjet Ingibjörg, dóttir Hjálmars í Skógum í Vopnafirði. Systkyni átti Jósef átta; af þeim eru á lífi tvö: Hermann Kristján og Stefanía, bæði heima á Íslandi í Norður-Múlasýslu. Kona Jósefs, Messíana Jósíasardóttir, Jónssonar, var sú ætt úr Dalasýslu. Systkyni átti Messíana 13, af þeim eru á lífi tvö: Daniel og Sigurrós, bæði heima á Íslandi í Vesturhópi í Húnavatnsýslu. Þau hjón, hafa

eignazt 9 börn, átta eru á lífi, einn sonur og sjö dætur. Sonur þeirra Einar Egill. Dætur þeirra eru: Margrjet Ingibjörg, gipt G. E. Johnson, verzlunarmanni á Markerville. Stefanía; Jósepína Sigurbjörg; Sezelía; Concordía Lilja; Svava Sigurlín. Clara Sigurborg. Sumarið 1883, flutt Jósef af Vopnafirði vestur um haf, til Bandaríkjanna, og settist að í Grafton, N. Dakota. Keypti hann þar land og bjó þar hin næstu missiri. Árið 1889 flutti hann vestur til Alberta. Tók hann land í nánd við Tindastól og hefir búið þar síðan. Víst hygg jeg, að Jósef flytti til Alberta talsverðan fjárhlut, miðað við þann fjárstofn, sem menn höfðu á þeim árum; en honum hefir líka búnast vel, svo mjög er óvíst, að nokkrum hafi farnast betur í þessari bygð, þegar allra ástæðna er gætt. Bæði þau hjón hafa verið samtaka í dugnaði og ráðdeild, sem ásamt fjárstofninum, sem þau höfðu í byrjun, hefir aukið hagsæld þeirra.

## 17. ÞÁTTUR.

**Jóhanna Einarsdóttir.** Maður er nefndur Sigurður Eymundarson. Hann bjó á Langanesi norður. Hann fór vestur um haf til Ameríku árið 1882. Hjelt hann til N. Dakota og nam sjer land í Pembina Co. eigi langt frá Pembina-bæ, og bjó þar um hríð. Ekki hef jeg getað fengið greinileg skilríki um ætt hans, en víst ætla jeg, að hann hafi verið Langnesingur að ætt og kyni. Þrjá bræður átti hann, Jón, sem nam land í Dakota, í nánd við Sigurð, nafnkenndur maður og drengur góður. Annar bróðir Sigurðar, Eiríkur í Nýja - Íslandi. Þriðji var Eymundur nú í Argyle-byggð. Sigurður var kvæntur maður, og átti fyrir konu Jóhönnu Einarsdóttir, Eymundarsonar af Langanesi. Móðir Einars var Ása,

systir Jakobs á Breiðumýri. Móðir Jóhönnu hjet Þorbjörg Þorvarðardóttir frá Yzta-Hvammi í Aðal-Reykjadal. Systkyni Jóhönnu, sem lifa hjer vestra, eru: Hróbjartur bóndi í Alberta Nýlendu; Mathúsalem við Mountain í N. Dakota, Þorvarður við Pembina-bæ í N.D. og Ása Ingibjörg, kona Mathúsalems Jónssonar í Árnes-byggð í Nýja-Íslandi. Heima á Íslandi lifa þrjár systur Jóhönnu. Jóhanna, gipt Birni Jónssyni í Sandfellshaga við Axarfjörð; Þóra, ekkja eptir Sigurð Jónsson í Laxárdal og Aðalbjörg, ekkja eptir Helga Sigfússon við Seyðisfjörð. Þá er Sigurður Eymundarsson hafði búið nokkur ár í Dakota, andaðist hann líklega 1886. Eptir það bjó Jóhanna með börn sín öll þá ung í Dakota þrjú ár, og ætla jeg víst, að opt hafi þá ástæður hennar verið þröngar, en hún var kona stilt, þrautgóð og kjarkmikil, og kunni vel að fara með lítil efni, sem þá hjálpaði henni eins og optar, að sigrast á örðugleikunum. Árið 1889 flutti hún vestur til Alberta nýlendunnar, og nam land austast í henni. Bjó hún þar lengi síðan, með sonum sínum, með tilstyrk Vigfúsar Halldórssonar, er kom að austan um sama mund og Jóhanna. Börn þeirra Sigurðar og Jóhönnu, sem náðu fullorðins aldri, voru fimm synir: Þórel, Karl, Einar Bergþór, Hannes og Jón, og ein dóttir Þorbjörg Júlía.

## 18. ÞÁTTUR.

**Vigfús Halldórsson.** Vigfús er Þineyingur að ætterni. Faðir hans var Halldórsson; átti sá Halldór konu þá er Dorothe hjet; hún var dóttir Nikulásar Buck og konu hans Karínu dóttur Bjarnar, verzlunarmanns á Húsavík. Björn sá var sonur Halldórs biskups á Hólum í Hjaltadal. Móðir Vígfúsar var Ingibjörg Jónsdóttir;

mun sá Jón, hafa verið bróðir Sigurðar á Grímsstöðum við Mývatn. Móðir Ingibjargar var Helga Jónsdóttir, prests Helgastöðum í Reykjadal. Hvort Vigfús átti nokkur systkyni, er mjer eigi kunnugt. Vigfús fór frá Skógum í Axarfirði vestur um haf árið 1885 til Winnipeg. Var hann þá hin næstu missiri ýmist í Winnipeg eða suður í Dakota en flutt mun hann hafa vestur til Alberta byggðarinnar árið 1889. Eptir hann kom vestur, rjeðst hann til Jóhönnu Einarsdóttur og var með henni, mörg ár, sem forráðamaður bús hennar einkum eptir að synir hennar, voru vaxnir og tóku að vinna á ýmsum stöðum. Vigfús nam síðar land, eptir 1900, tvær mílur suðaustur frá Evarts-bæ. Eigi löngu síðar kvæntist Vigfús Jóhönnu Einarsdóttur; gjörðu þau þá samlagsbú og fluttu á land Vigfúsar. Bjuggju þau þar hin næstu ár, og þó eigi mörg því árið 1908 ljetu þau af búskap, og fluttu vestur um fjöll til Vancouver, B.C. og settust þar að. Þau áttu eina dóttur barna, sem heitir Jóhanna Ingibjörg. Vigfús er skýrmaður og fróður um margt, en hefir nokkuð sjerkennilegar skoðanir, sem stundum fara á snið við skoðanir fjöldans. Vigfús er maður verkhagur á allt og fjölhæfur. Hann er bókbindari og málari; á yngri árum fjekkst hann mikið sjómennsku, og var jafnvel í förum landa á milli, og svo hefir hann sagt mjer, að sú vinna hafi sjer þótt skemmtilegust og átt bezt við sig.

## 19. ÞÁTTUR

**Guðmundur Þorláksson.** Faðir Guðmundar hjet Þorlákur og var Guðmundsson frá Brekku við Gilsfjörð í Barðastrandarsýslu. Móðir Guðmundar hjet Steinunn Sæmundardóttir, Björnssonar, prests í Tröllatungum í Barðastrandarsýslu. Guðmundur er fæddur 1. nóvember 1861 á Gautshamri í Strandasýslu. Ólst Guðmundur upp á þeim stöðvum til þess hann var 10 ára. Fór hann þá í Saurbæ í Dalasýslu og var þar til 18 ára aldurs. Þá flutti hann aptur norður í Strandasýslu. Árið 1885 fór hann til Torfa jarðyrkjumanns í Ólafsdal, og var hjá honum tvö ár. Árið 1887 fór hann burtu af Íslandi til Ameríku. Fyrst til N. Dakota, en sumarið eptir fór hann, sem fyrr segir, vestur til Alberta. Fór hann norður að Red Deer, með fyrsta hópnum og vann um tíma við heyverk hjá L. M. Zage, en hvarf aptur til Calgary um haustið. Var hann einn þeirra Íslendinga, sem unnu þann vetur fyrir Ólaf Goodman við skógarhögg vestur í Klettafjöllum. Eftir það vann hann lengstum í Calgary, þangað til árið 1891, að



hann flutti norður í Íslendinga-byggð. Guðmundur átti fyrir konu Guðbjörgu Bjarnardóttur. Björn sá var Jónsson frá Hlíð við Kollafjörð á Ströndum. Móðir Guðbjargar hjet Þordís Guðmundardóttir. Guðmundur sá var sonur Einars, bróður Ásgeirs á Þingeyrum í Húnaþingi. Guðbjörg átti systkyni, eigi allfá; af þeim komu til fullorðins ára 10. Af þeim er á Íslandi einn bróðir á lífi, Gísli að nafni, og tvö dáin, Torfi og Helga. Hjer vestanhafs, eru á lífi: Björn og Guðmundur, bændur við Markerville; Júlíus að Garðar og Ásgeir að Mountain í N.D. Anna, kona Kristjáns Samúelssonar að Garðar, Bogi vestur í Seatle, Washington, og Jónas, nú í Winnipeg. Guðbjörg kom frá Íslandi til Calgary ári síðar en Guðmundur, og ætla jeg að hún væri festarmær hans að heiman; en hvað sem um það var, þá giptust þau sumarið 1890.—Eigi voru efni þeirra hjóna meiri en svo, er þau fóru af Íslandi, að þau höfðu naumlega farareyri vestur. Guðmundur var því eignalaus, er hann kom til Alberta. Hann vann fyrstu árin í Calgary, og þau hjón bæði, þangað til árið 1891, að þau fluttu norður í nýlenduna og byrjuðu búskap; fyrst byggði Guðmundur skamt uppfrá Markerville og bjó þar um nokkur ár; síðar færði hann bú sitt og nam land 6 mílur upp frá Markerville-bæ austanverðu við Medicine ána, og hefir búið þar síðan.—Heimili þeirra ber órækan vott um góða búsumsýslu og reglusemi og halda þau þó flestu því í afhaldi, sem þótti bæta og prýða íslenzkan búskap. Guðmundur er nú einn af beztu bændum þessarar byggður.

## 20. ÞÁTTUR.

**Jón Einarsson.** Þess var getið í I. kafla sögn þessarar, að til Alberta fluttu árið 1888, fjórir fjölskyldulausir menn. Einn þeirra var Jón Einarsson, ættaður úr Borg-

arfjarðarsýslu. Foreldrar hans voru Einar Þorbjarnarson og Guðrún Jónsdóttir, er bjuggu allan sinn búskap á Galtarholti í Skilmannahreppi í Borgarfirði. Jón flutti vestur um haf árið 1886, til Winnipeg og þaðan sem fyrr segir til Alberta. Kona hans er Þóra Aradóttir frá Breiðavaði í Langadal í Húnavatnssýslu. Jón vann lengstum í Calgary þann tíma, sem hann var í Alberta; þó nam hann land og húsað-bæ, eigi langt frá Sólheima pósthúsi, en sleppti því og flutti austur aptur til Winnipeg og býr þar nú.

## 21. ÞÁTTUR.

**Jón Guðmundsson.** Þó að Jón ekki geti talizt einn af landnemum þessarar byggðar, þykir mjer þó hlýða, að geta hans að nokkur. Jón er Skagfirðingur að ætt; Guðmundur faðir hans var Þorvaldsson, en móðir hans var Guðbjög Evertsdóttir; og er Jón hálf bróðir Bjarna Jónssonar landnámsmanns, sem getið hefir verið hjer að framan í sögu þessi. Jón kom vestur um haf árið 1883 með móður sinni og Bjarna bróður sínum, ungur aldri, og fór með honum til Dakota; í Dakota dvaldi Jón þangað til árið 1888, en flutti þá ásamt Bjarna vestur til Alberta; er þess getið í 1. kaflanum af sögu þessari, að hann var einn þeirra þriggja ókvæntu manna, er fluttu alla leið norður fyrir Red Deer. Vann hann um sumarið fyrir L.M. Zage við heyverk, hvarf til Calgary um haustið; vann hann þar lengi síðan. Grímur hjet maður, Þorsteinsson frá Hörmundarfelli við Pistilsfjörð á norðan verðu Íslandi; móðir Gríms hjet Ragnheiður. Grímur fór vestur um haf til Canada árið 1887, og kom til Calgary árið 1888 um veturinn. Kona Gríms var Jónína Halldóra, dóttir þeirra hjóna, Jóns Pjeturssonar og Dorothe Sophíu Halldórsdóttur, sem lengi bjuggu á

Blíkalóni á Melrakkasljettu í Þingeyjarsýslu. Grímur lifði eigi lengi eptir að kom til Calgary, og mun hann hafa andazt haustið 1890, áttu þau einn son á lífi. Nokkrum árum síðar, árið 1896, kvæntist Jón Guðmundsson, Jónínnu Halldóru ekkju Gríms. Keypti hann sjer þá bæjarjarðir í Calgary og hefir búið þar síðan. Tvö börn eiga þau, son og dóttur.— Það sáu menn brátt, eptir að Jón kom til þessa lands, að hann myndi farnast vel; eigi leið á löngu, áður hann næði traustum tökum á enskri tungu, svo vel, að allur fjöldinn sem gengið hefir hjer lengi á alþýðu-skóla, mun lítt eða ekki taka honum fram, enda frýr honum enginn vits, hann hefir lesið mikið og er fróður um margt, en lætur eigi mikið yfir því.— Hann kenndi fyrsta tímabilið á Hola-skóla hjá Íslendingum, og jeg held ósannað, að neinn kennari á þeim skóla, hafi gjört betur, að öllum ástæðum athuguðum. Allir sem kunnleika hafa af Jóni, þekkja hann fyrir góðan dreng.

## 22. ÞÁTTUR.

**Ófeigur Sigurðsson.** Ófeigur er ættaður í báðar ættir úr Árnessýslu. Faðir hans var Sigurður bóndi Sigurðsson á Skeiðum, en móðir hans var Guðrún dóttir Ófeigs bónda á Fjalli í Árnessýslu. Ófeigur átti systkyni mörg. Af þeim eru lifandi þrjú. Ingvar verzlunarmaður í Reykjavík, Vigfús kominn til Alberta og Jónínu, nú gipt Jóni Vernharðssyni, áður gipt Ófeigi Guðbrandssyni. Kona Ófeigs er Ástríður Tómasdóttir, bónda Jónssonar á Kárastöðum í Þingvallasveit á Íslandi. Systkyni Ástríðar eru þrjú á lífi á Íslandi: Þormóður, Engilráð og Guðrún. Börn þeirra Ófeigs og Ástríðar eru sex, fimm sem eru á lífi: Tómas, Guðrún, Sezelía, Ástrún og Bjarninna, öll mannvænleg; einn dreng misstu þau á

unga aldri, Bjarna að nafni, var það raun mikil þeim hjónum, því hann var hið væesta mannsefni. Af Íslandi fluttu þau hjón vestur um haf, úr Langardalnum í Grímsnesi árið 1887, fyrst til Winnipeg og dvö'du þar, þangað til árið 1889, að Ófeigur flutti vestur í íslenzku nýlenduna í Alberta nam hann land tvær mílur suður frá Sólheima pósthúsi og bjó þar síðan. Ófeigi hefir farnast mjög vel; hann er búsumsýslumaður mikill, og tekur mikinn og góðán þátt, í öllum fjelagsskap byggðarinnar, og er hinn vinsælastimaður;stendur bú hans með miklum veg og risnu, og vant er að sjá, að annað bú standi á traustari grundvelli í byggð þessari, en bú Ófeigs Sigurðssonar.

## 23. ÞÁTTUR

**Sigurður Grímsson.** Sigurður er sonur Grímsbónda í Landakoti á Álptanesi við Hafnarfjörð,Gullbringusýslu; móðir Sigurðar var Jórunn Jónsdóttir; ætt hennar var austur í Árness. Systkyni Sigurðar: Sveinn; kom hingað til Alberta um eða rjett eptir 1900, og tók land í grennd við Sigurð bróðir sinn, eigi var Sveinn hjer í Alberta lengi, og fór vestur að Kyrra-hafi, ætla jeg að hann muni nú vera kominn norður til Prins-Rupert; Halldóra er í Winnipeg. Sigurður er tvíkvæntur; fyrri kona hans var Kristín, dóttir Erlendar bónda Erlendssonar á Breiðabólstað á Álptanesi og konu hans Þuriðar Jónsdóttir. Með fyrri konu sinni, átti Sigurður 8 börn, af þeim eru á lífi 6, eitt þeirra er Erlendur póstafgreiðslumaður að Burnt-Lake. Sigurður kvæntist í annað sinn árið 1906, Ingibjörgu Magnússdóttur, Gunnarssonar frá Geitagerði í Borgarsveit í Skagafirði, móðir Ingibjargar var Sigríður Guðvarðardóttir frá Ketu á Skaga. Systkyni Inibjargar: Sigríður kona Jóhanns

Sigurðssonar á Sævarlandi í Ytri Laxárdal í Skagafjarðarsýslu. Guðvarður bóndi á Hafragili í sömu sveit. Ingunn, gipt Ólafi Sveinssyni á Akri á Skaga, Hallfríður, gipt Þórarni Guðmundssyni í Red Deer bæ. Sveinn bóndi við Foam-Lake í Sask., Sigurður bóndi við Markerville og ein hálfsystir Inga að nafni. Sigurður flutti af Íslandi árið 1887 til Winnipeg, en fór þaðan til Alberta árið 1889 og nam land í grennd við Burnt-Lake pósthús, hvar hann hefir búið síðan.

## 24. ÞÁTTUR.

**Jón Jónsson.** Jón er sonur Jóns Pjeturssonar og Ingunnar Ólafsdóttur, er síðast bjuggu að Kolgröf í Skagafirði, en fluttu vestur um haf árið 1876. Jón ólst upp með foreldrum sínum í Nýja-Íslandi, en ungur mun hann hafa farið að vinna hjá öðrum, sem þá var títt um unga menn. Jón kvæntist Sigurbjörgu Benidictsdóttur, Ólafssonar frá Eiðsstöðum í Húnavatnssýslu, sjest ætt hennar gjör af þættinum af Benidict föður hennar. Jón flutti frá Nýja-Íslandi til N. Dakota með þeim fyrstu, og nokkru fyrr en faðir hans; mun hann fyrst hafa numið land suðvestur frá Hallson en fært sig þaðan vestur á Pembina-fjöll og tekið þar annað land; þaðan fór hann vestur til Alberta, og nam þar land í grennd við Sólheima pósthús árið 1888; þar bjó hann nokkur ár; seldi síðan lönd og lausafje, og flutti norður til Edmonton kringum 1904; settist hann þar að og hefir búið þar síðan. Þar hefir hann fengizt mest við bæjarjarðaverzlun og farnazt vel. Jón er vel gefinn maður, hjálpfús, drenglyndur og raungóður, sem hann á ætt til. Á ýmsu hefir oltið fyrir Jóni á stundum, og opt hefir hann komizt í hann krappan, þótt vonum skár hafi úr ræzt, Þau hjón eru bæði höfðinglynd og halda uppi heiðri íslenzkrar gestrisni með

hinni mestu rausn og myndarskap. Þau hjón hafa eignast sjö börn. Þau eru: Ólafur Tryggvi, Hólmfríður, Pjetur, Ingiríður, Karl Jón, Albert Benidict — dáinn í apríl mánuði 1910—, og Snorri Edmund.

## 25. ÞÁTTUR.

**Eyjólfur Helgason** frá Hvammi í Landmannahreppi í Rangárvallasýslu; hann ólst upp í Stokkseyrarhreppi í Árnessýslu. Eyjólfur átti konu þá er Guðlaug hjet Jónsdóttir frá Stóra-Klofa í Rangárvallasýslu. Um ætt þeirra hjóna er mjer eigi kunnugt. Eyjólfur fór af Íslandi vestur um haf árið 1887, til Norður-Dakota og og dvaldi þar eitt ár, en flutti til Alberta 1888 og nam land eigi langt frá Sólheima-pósthúsi, en flutti þaðan árið 1892 og býr nú í Rossland, B.C., sex börn hafa þau átt og lifa fjögur. Eyjólfur er dugnaðarmaður og hefir farnazt vel.

---

## 3.
## Bjargráð nýlendubúa fyrstu árin.

Af því, sem áður er ritað, er auðvelt að geta sjer til, að ekki hafi verið um framfarir að ræða, fyrstu tvö árin meðal nýlendumanna. Flestum þeirra var um það eitt að gjöra, að ráða fram úr bráðustu þörfum. En góð ráð voru dýr; eigi var um atvinnu að ræða, nær en suður í Calgary-bæ. Þangað urðu menn að hverfa, sama sumarið, sem þeir fluttu norður, en láta eptir konur og börn, með eptirliti þeirra sem kyrrir voru. Flestir þeirra,sem suður fóru, unnu hjá Ólafi Goodman, sem hafði þau missiri samningsvinnu í Calgary; unnu sumir þeirra fyrir

hann næsta vetur, þótt þeim yrði það sumum að litlu liði. Til viðauka við þann litla nautgripastofn, sem fluttur hafði verið austan úr Manitoba og áður hefir verið skýrt frá, keyptu nýlendubúar 12 kvígur þriggja ára, þá um haustið, þær voru vænar útlits og kyngóðar en afar dýrar, 39 til 45 dali borguðu flestir þær með þeim peningum, sem þeim höfðu gra.ðzt um haustið fyrir vinnu sína í Calgary, gengu kaup þessi svo nærri sumum,sem höfðu margt skyldulið fram að færa, að þeir settu sig í voða og hyski sitt, með vetrarforða;samt komust menn af veturinn næsta með hörkubrögðum. Ein sölubúð var suður frá Red Deer-ánni, og var þar allt með okurverði, en yfir háveturinn urðu ný-byggjar að hlýta þeim ókjörum, og varð þeim það fjeskýlft mjög. Sem dæmi þess, hve allt var dýrt, má geta þess, að hveiti-sekkur af ljelegustu tegund —XXXX— var 4 dali. Steinólía eitt gallon 80 cts. Pund af grænu kaffi 33 cts. Molasykur 12½ cts og annað allt líkt þessu. Hafði þá nær því enginn maður cent í afgangi þegar voraði. Vetur sá var nær því sem enginn og voraði mjög snemma; leysti þá ísa snemma af ám og vötnum; veiði var í Medicine-ánni sem þá var sótt fast af flestum; bjargaði það ástæðum margra, því gnægð fiskjar var þá í ánni yfir vorið og sumarið fyrstu árin, var það mest sugfiskur, pikkfiskur og gedda, sem veiddist. Sumir veiddu svo mörgum hundruðum skipti og lifðu af því að mestu leyti tímum saman. Svo leituðu menn til fanga, að vatni því er norður liggur frá byggðinni og Snáka-vatn heitir; var þar gedduveið mikil fyrstu árin; fluttu menn þangað báta og höfðu net að veiðarfærum. Voru menn þar í fiskveri í apríl og maímánuðum. Höfðu menn þá opt veður hörð og kalda útivist. Rok voru á vatninu einatt svo dægrum skipti, að illt var til fiskjar; veiddu Íslendingar í vatninu ó-

grynni fyrstu árin og var það þeim hagsbót mikil. Að útvinnan og fiskveiðin, hafi verið bjargráð nýlendumanna, fyrstu árin, ætla jeg satt sagt; ekki var búpeningi til að dreifa; hann var sem áður er tekið fram, ekki margur; allt var á vetur dregið til fjölgunar, sem lifað gat, og aukið við stofninn sem mest var unnt.

Hin fyrsta gleðisamkoma, sem haldin var í byggðinni, var 27. júnímánaðar 1889, hjá S. J. Björnsson. Þeir fáu, sem þá voru heima í byggðinni, sóttu mót þetta; enginn sat heima; var þar rætt um framtíðarhorfur byggðarinnar og skemt með söng og ræðuhöldum, með fleiru. Þá var það að Guðmundur Jónsson, bar upp til umræðu, hvað nýlenda þessi skyldi nefnd, kom mönnum þá ásamt, að kalla hana "Medecine Valley". Samt festist þetta nafn aldrei við byggð þessa, heldur hefir hún verið nefnd ýmist Alberta-nýlenda eða Red Deer-nýlenda, og er þó hvorugt vel valið.

Samgöngufæri voru þá engin. Fyrst fengu menn póst sinn frá Calgary seint og síðar meir. Svo var hann fluttur norður á sölubúð þá, sem fyrr er nefnd; var hún síðar nefnd ,,Poplar Grove"—nú "Innisfail; þangað var pósturinn sóttur fyrsta veturinn með hættu og erfiðleikum, þar sem eigi varð yfir Red Deer-ána komizt, utan á bátum, opt um langan tíma. Þá var það síðla um veturinn 1889, að L. M. Zage fjekk þá flugu í höfuðið, að fá sett pósthús hjá sjer; veittu Íslendingar og fleiri, honum að þessu; bænarskrá var samin og undirrituð og send stjórninni. Stjórnin brást vel við og veitti þessu áheyrn. Fjekk Zage pósthúsið sumarið 1889; var það nefnt "Cash City". Hafði Zage pósthúsið aðeins rúmt ár, en sleppti því svo með litlum drengskap; sagði eigi hægt, að halda því áfram; kvað hann Íslendinga skrælingja eina, sem eigi væru þess um komnir, að eiga viðskipti nje

samgöngufæri við umheiminn. Fjell þá niður póst afgreiðsla að Cash City. Urðu þá nýlendumenn sem fyrr, að sækja póst sinn til Poplar Grove um hin næstu missiri, þangað til pósthúsið var sett að Tindastól, sem síðar mun sagt verða.

---

Hjer að framan hefir þá verið skýrt frá landnámi Íslendinga í Alberta-hjeraði fyrstu tvö árin, eða til 1890; Þó má vera að fleiri hafi numið land, þau árin, en hjer eru taldir og verður þeirra þá getið í III. kaflanum. Rúm og fleiri atvik leyfðu ekki að þessi kafli væri lengdur meira.



## Lengi muna börnin.

(Eftir séra Lárus Thorarensen.)

Það var sunnudagur.

Og ekkert skólalærdómsfarg hvíldi yfir manni þann daginn.

En flestir piltarnir voru á fundi upp í skóla, nema Þórarinn, hann var heima — eða réttara sagt, hann sat einn inni í þrönga klefanum, undir súðinni í húsinu hennar maddömu Hagalín. Hann var lasinn, og var líka nýbúinn að fá bréf að heiman, með fréttum sem höfðu fengið mikið á hann.

En hvað vissi heimurinn af því? Og hvað ætli hann hefði farið að skifta sér af því, þó að hann hefði nú vitað það eða skilið það?

Það var í vetrarbyrjun. Útsynningur með haglélj-um úti.

Og kalt inni. Enginn eldur í ofninum. Þórar-inn átti sjálfur að legga til eldiviðinn. Enda var honum það vorkunarlaust, þar sem herbergið þetta, í húsinu henn-ar maddömu Hagalín, kostaði ekki nema 8 krónur um mánuðinn — galtómt — ljóslaust og rúmlaust.

,,Eg vildi að eg væri horfinn heim", hugsaði Þórar-inn, ,,þó að mamma sé fátæk þá vill hún alt af láta mér líða betur en þetta. En eg hef ekki viljað skrifa henni neitt um það, hvað mér leiðist og líður hérna illa. — Hug-urinn er þó alt af heima, þar sem eg var barn. — Og eg er enn þá barn".

Það var barið á dyrnar — svona til málamynda — og inn kom maddama Hagalín, húsmóðirin sjálf.

,,Góðan dag! — eg ætlaði að tala um það við þig, að mér kæmi nú vel, ef þú gætir borgað leiguna fyrir her-bergið; það er nú komin rúm vika, síðan mánuðurinn leið. Og eg get eiginlega ekki liðið neinn lengur, sem eg tek í húsið; enda borga allir skilvíslega, sem leigja hjá mér."

En maddama Hagalín var flugrík. Maðurinn henn-ar sálugi var timburmeistari. Og hún hafði fengið stór-fé eftir hann.

,,Eg hef nú ekki nærri því alt það, sem þarf til að borga yður alla mánaðarleiguna. En eg skal gera alt sem eg get til þess, að þér fáið peningana annað kvöld," mælti Þórarinn.

,,Jæja. — En er þér ekki hálfkalt hérna inni núna?"

,,O — nokkuð" —

— ,,Hvað var hún að spyrja um kulda? Eins og hún meinti nokkuð með því! Sjálf hefði hún ekki viljað búa í

slíkum ískulda. En ekki varð henni að vegi að bjóða manni að leggja í ofninn hérna."

Þannig hugsaði munaðarlausi skólapilturinn, þegar þessi líknsama húsmóðir var farin út úr kompunni.

En hvar átti hann að fá peningana handa henni? Móðir hans, sem var fátæk ekkja, gat ekki sent honum nokkrar krónur fyr en seinna, undir jól, og þó því að eins, að hún gæti selt kúna, sem hann Jón sýslumaður, er var nýfluttur þar í sveitina, var að tala um að kaupa.

,,Eg verð að reyna að fara út, til að fá lánaða þessa peninga. En það er svo erfitt fyrir fátæka að fá peningalán. Og þreytandi að biðja. Eg vildi að eg gæti hjálpað þeim sem bágt eiga, þá skyldi eg sýna það einhverjum, að það er ekki ætíð svo sárt að þurfa að biðja. Nískan gerir það oft svo dauðans sárt."

Svo fór hann út í illviðrið, þó að hann væri ekki frískur. Hann fór ekki í neinn frakka utan yfir sig, af því að hann átti hann ekki til.

En hvern átti hann að biðja? Hann var öllum ókunnugur hér. Og fjárhaldsmaður hans var svipaður fjárhaldsmönnum sumra annara skólapilta — ekkert nema nafnið.

Hann velti því fyrir sér í huganum, hvernig hann ætti að haga orðunum við þann, sem hann ætlaði að biðja um peningana.

Síðan fór hann með hálfum hug inn til kaupmanns, sem bjó í næsta húsi, og hann hafði oft séð ganga fram hjá,

Hann drap á dyrnar. Og húsbóndinn — kaupmaðurinn — sjálfur lauk upp.

Hann lét skólapiltinn koma inn. En bauð honum ekki sæti. Og út úr augunum skein það, að hann óskaði að erindið væri borið sem allra fyrst upp.

,,Eg ætlaði að spyrja yður að því," mælti Þórarinn ,,hvort þér vilduð nú gera bón mína og lána mér svo sem 7 krónur. Mér liggur töluvert á þeim. Og eg skal reyna borga yður bráðum aftur."

,,Eg lána aldrei peninga", svaraði hinn, það er ,,*mitt princip*".

,,Nú, jæja, eg ætlaði bara að vita það", mælti Þórarinn, um leið og hann bað kaupmanninn að fyrirgefa og fór út.

,,Mitt princip!" — dáfallleg lífsregla! að líkna aldrei fátækum! — að láta aldrei nokkurn eyri nokkurn tíma af hendi rakna til að hjálpa öðrum mönnum, sem bágt eiga — og geta það þó vel! Fari þeir böl . . ., sem setja sér þá lífsreglu"! hugsaði Þórarinn, því að honum sárnaði svo þetta ómannúðlega svar og hann átti líknsama móður, sem öllum bágstöddum vildi hjálpa, eftir því sem litil efni hennar frekast leyfðu.

,,Eg get líklega ekki fengið þessa peninga. Og þá veit eg ekki hvernig fer um mig. Því að eg veit, að maddama Hagalín sýnir mér ekki lengi neina vorkunn,— það er eg viss um. — Eg ætla að reyna að fara til hans Þórðar kennara. Hann hefir nóga peninga. Og honum er borið svo fyrir taksgott orð af öllum, sem eg heyri tala um hann".

Síðan fór félausi pilturinn heim til embættismannsins.

,,Eg hef, því miður, enga peninga á mér", svaraði skólakennarinn þessi ágætismaður, þegar Þórarinn var búinn að bera upp erindið.

,,Því miður"! — eins og hann hefði þá ekki getað farið ofan í bankann á morgun og fengið þar einar 7 krónur af því, sem hann átti þar inni, — ef hann hefir þá ekki

haft peningana niður i skrifborðsskúffunni sinni — hefði hann bara viljað gera lítilfjörlega bón mína," hugsaði munaðarlausi skólapilturinn á eftir. — ,,Og þó sagði eg honum alt, hvernig á stóð fyrir mér, og hvað eg ætti bágt".

Svo reyndi hann við ,,kunningja" sinn, efnaðan verzlunarmann, sem borðaði í sama húsi og hann. En hann hló og sagðist skyldi gera alt fyrir hann, nema að lána honum peninga.

Þórarinn gekk niður aftur strætið, hryggur í huga, miklu sárhryggari en nokkur maður vissi.

Og hann gekk fram hjá stóru steinhúsi — sem ekki var hvitt. — Það var bankinn. Þar voru nógir peningar, — nóg til að borga margar húsaleigur og 8 króna herbergi. En þar voru eintómir bankahagsmunir eins og rígnegldir slagbrandar fyrir dyrum mannúðarinnar.

Í úthverfi borgarinnar var gömul kona, sem var líka fátæk, en hafði dregið fram lífið, í síðustu ár, með því að selja ýmislegt af prjónafatnaði, er hún hafði unnið að, á milli þess sem hún þvoði föt fyrir hina og þessa úr nágrannahúsunum. Hún átti engan náinn ástvin lifandi. Og hún bjó í litlum klefa niður í kjallara.

Þórarinn hafði einu sinni fengið hjá henni eina sokka. Og hún hafði liðið hann lengi um borgunina.

Nú datt honum í hug að finna hana að máli, þó að hann byggist reyndar ekki við því að hún gæti nú bætt úr peningavandræðunum. Svo var það líka hálfleiðinlegt að þurfa að vera aðbiðja bláfátæka manneskju um peningalán.

En hann fór samt heim til hennar.

Hún sat ein inni, eins og hún var oftast vön, og var að prjóna fingravetlinga.

,,Gott kvöld, Guðrún mín! Eg er feginn að koma hér inn í hlýindin og hvíla mig dálítð", mælti Þórarinn.

Hún tók hlýlega kveðju hans og hélt honum væri ekki ofgott að tilla sér niður við ofngarminn.

,,Eg er nú reyndar kominn hérna í sérstökum erindagerðum".

,,Jæja, það er verst, ef maður getur ekkert bætt úr því?"

Svo sagði hann henni upp alla söguna, hvað hann ætti bágt með að borga skuldir sínar, bæði húsaleiguna og fleira.

,,Eg get nú reyndar ekki hjálpað þér um mikið af peningum, þó eg feigin vildi, en hérna eru 10 krónur, sem eg get vel mist. Þú borgar mér þær einhvern tíma, þegar þú átt hægt með. — Eg þekki sjálf fátækt. Og því skil eg hana hjá öðrum."

Umkomulausi skólapilturinn þakkaði hlýlega fyrir hjálpina.

Hann fann þarna loksins ríkt hjarta, auðugt af mannúð og hjálpsemi; hjarta, sem sló í brjósti aldurshnigna einstæðingsins, er bjó þarna í dimma kjallaranum, í afskekta húsinu. eins og haustblómstur í skugga.

—Konan þessi, sem rétti fátækum og vinalausum dreng hjálparhönd, er nú löngu dáin.

Og á leiði hennar er ekki nema einn lítill blómsturkranz — oflítill, en gefinn af hlýum hug.

Fátæki skólapilturinn lifir enn.



## Gunnsteinn Eyjólfsson.

Hans minnist síra Jón Bjarnason, D. D. í Marz-tölublaði Sameiningarinnar á þessa leið:

,,Gunnsteinn heitinn var að eins tæpra fjörutíu og fjögra ára, er hann lézt. Fæddr á Íslandi — að Unaósi í



GUNNSTEINN EYJÓLFSSON.

Hjaltastaðaþinghá í Norðr-Múlasýslu — 1. April 1866.

Var hann barn að aldri, þá er hann 1876 fluttist vestr um haf og til Nýja Íslands með foreldrum sínum: Eyjólfi Magnússyni, sem andaðist á Unalandi hálf-níræðr að aldri í hitt hið fyrra (24. Okt. 1907), og seinni konu hans Vilborgu Jónsdóttur, sem enn er á lífi norðr þar. Gunnsteinn var fermdr rúmra 13 ára 1879 (3. sd. eftir páska) með ungmennum öðrum við Íslendingafljót. Vakti hann um það leyti sérstaka eftirtekt mína. Mér duldist ekki, að hann var frábærum hæfileikum gæddr, djúpt hugsandi og með hvössum skilningi, og með miklu meiri kristindómsþekking en venjuleg er á því aldrsskeiði, enda var hann í þeim efnum einkar vel settr, þar sem hann var í alveg einstaklegum kristindómsskóla hjá hinum göfugu foreldrum sínum. Engrar annarrar skólagöngu naut hann og varð þó að mörgu leyti prýðilega mentaðr; las mikið og hugsaði því meira; manna sjálfstæðastr í skoðunum, og því alla daga lítt til þess búinn að binda bagga sína eins og alment tíðkaðist í næsta umhverfi, enda af sumum talinn nokkuð einrænn. Víða var hann vel heima á svæði bókmenta, meðal annars í skáldskap ýmislegum; greiðr til, þá er því var að skifta, að varpa sér með pennann inn í ágreiningsmál þau, er almenning varða; ritaði gott mál, hugsanirnar jafnaðarlega vel ljósar og röksemdirnar sannfærandi. Söngfræðingr var hann mikill, og er þekking hans í þeirri grein fyrir löngu alkunn. Gegnir það furðu, að maðr, eins erfiðlega settr og hann var í því tilliti, skyldi þar komast svo langt sem raun varð á.

En allra bezta einkenni hins látna merkismanns var þó það, hve sterkt hald kristindómrinn hafði á honum alla æfi. Eins og faðir hans var hann víst að eðlisfari fremr þunglyndr maðr, en sökum trúarinnar kristnu, sem hann svo að kalla drakk í sig með móðurmjólkinni, varð úr

þunglyndi því að eins djúp alvörugefni. Kristin trú var honum hjartanlegt áhugamál.

Gunnsteinn heitinn Eyjólfsson lætr eftir sig ekkju — Guðfinnu Eiríksdóttur Sigurðssonar, ágæta konu (þau giftust 10. Des. 1888) — og níu börn, hið elzta rúmlega tvítugt, hið yngzta ekki enn ársgamalt".

---

# VIÐAUKI

**við landnámssöguþátt Álftavatnsbygðar í Almanakinu 1910.**
**Eftir Jón Jónsson (frá Sleðbrjót).**

(Grein um landnámsmenn þá í Álptavatnsbygð, er hér eru taldir, kom ofseint í hendur útg. Almanaksins, til þess hún yrði prentuð í f. á. Almanaki).

**Jón Jónsson Westmann,** sonur Jóns Sigurðssonar er lengi bjó á Hjarðarholti í Miklaholtshreppi í Snæfellssýslu, og Kristínar Eggertsdóttur, er ættuð var úr Norðurlandi. Kona Jóns Westmanns er Anna Sigríður Jónsdóttir Jóhannessonar er lengi bjó í Rauðseyjum í Breiðafirði. Móðir Sigríðar var Vigdís Magnúsdóttir úr Skáleyjum í Breiðafirði. Jón Westmann kom frá Íslandi til Winnipeg 1888. Flutti til Álptavatnsbygðar 1896, og nam þar land fast við þjóðbrautina (Missionbrautina) Jón er greindur maður og glaðlyndur, og gestrisinn, og flestir hinna mörgu gesta þeirra hjónanna munu koma út frá þeim með gleðisvip.

**Daníel H. Guðnason Backmann,** sonur Guðna Jónssonar er lengi bjó á Dunkárbakka í Harðárdal í Dalasýslu og Guðnýjar Daníelsdóttur Kristjánssonar frá Hrafnrbjörgum í sömu sveit. Kona Daníels er Hólmfríð-

ur S. Kristjánsdóttir Sigurðssonar, er lengi bjó í Selárdal í ofannefndri sveit. En móðir Hólmfríðar var Margrét Sigurðardóttir Björnssonar í Selárdal. — Þau hjónin komu frá Íslandi 1887 til Winnipeg, til Álftavatnsbygðar fluttu þau árið 1900, og nam Daníel þar land, og býr þar góðu búi. Hann er einn af forgöngumönnum lúterska safnaðarins þar í bygðum. Bróðir Daníels, Kristján, kom frá Íslandi 1883. Flutti til Álftvatnsbygðar 1902 og nam þar land. Kona hans er Helga Jónsdóttir Sveinbjörnssonar Hörðdal frá Hóli í Harðardal í Snæfellnessýslu, og Halldóru Baldvinsdóttur, skálds, Arasonar.

**Árni Einarsson**, Einarssonar Magnússonar, er lengi bjó á Dunk í Harðardal í Dalasýslu og Elinborgar Jóhannsdóttur Kasparsonar. Kom til Ameríku frá Njarðvíkum á Suðurlandi 1887. Kona hans er Kristrún Magnúsdóttir Benediktssonar frá Selárdal í Harðardal í Dalasýslu. Móðir hennar Helga Grímsdóttir frá Hrafnabjörgum í sömu sveit. Komu frá Íslandi til Winnipeg 1894. Til Álptavatnsbygðar komu þau hjónin 1899, frá La Rivier og keypti Árni þar land og býr þar enn.

---

LEIÐRÉTTINGAR

við landnámssöguþátt Álftavetninga í Almanakinu 1910:

Bls. 43. Norðvestanvert í Álftav.bygð, á að vera Norðaustanvert.

Bls. 53. Sörlastöðum á, að vera Surtsstöðum, ekki Surlarstöðum, eins og bærinn er nefndur á sömu bls.

Bls. 64. Sörlarstöðum, á að vera Surtsstöðum.

Bls. 60. Keðjubóli, á að vera Kirkjubóli.



# Mun veröld vor farast í eldi?

## SÝNT FRAM Á, AÐ VÉR TORTÍMUMST Í ELDI ARCTÚRUS.

Hún er undurlítil veröld, þessi veröld vor, og dansar í kringum undurlitla sól, er þreytir sitt eigið skeið eftir feikilega löngum sporbaug. Við annan enda þessa sporbaugs bálar önnur sól, er vér kennum sem srjörnuna Arctúrus; en við hinn enda baugsins er ískalt og altómt gap ginnunga. Einn *heitan* dag verður það, að Aıctúrus, enn einusinni, brennir upp jörðina.

## Á LEIÐ TIL ARCTÚRUS.

Áreiðanlegar stjörnufræðislegar skýrslur sýna og sanna, að fyrir meira en tveim þúsundum ára, var Arctúrus rétt að eins sýnileg með berum augum, en nú bálar hún og blikar á himni næturinnar hér megin Vetrarbrautar fullt svo skær og ljómandi sem Júpíter. Sólin brunar fram með jörð vora og aðra áhangendur sína í suður, með fimm hundruð millión mílna hraða á ári, eftir bogadreginni braut, og sýna baugstig (segments) hennar óbreytilegt áframhald í eina og sömu átt, áttina til Arctúrus, þessa vaxanda ljóss — og hita.

Braut þá, er vér ferðumst eftir, hefir Arctúrus mælt og lagt út með áhrifum sínum og eftir stefnu þeirrar brautar að dæma, tekur það liðugt tuttugu og fimm þúsund ára tímabil, þangað til vér sveigum fyrir þennan funanda Músspellsheim. Þeir, er leggja stund á himintunglafræði vita, að vér erum meira en miðsvegar komnir þangað, er vér sveigjum fyrir Arctúrus. Þegar vér nú að lokum höfum náð svo langt, að vér förum að sveigja í kringum stjörnu þessa, verðum vér svo skamt frá henni

að alt líkamlegt líf tortímist, því stjarna þessi er hvítglóandi sól miljón sinnum stærri og sterkari en vor eigin sól.

## Í HELGREIPUM ÍSS OG DAUÐA.

Við hinn enda sporbaugsins, eins og áður er sagt, er ískalt og altómt gap ginnunga.

Þegar sólin sveiflast með alt fylgilið sitt út á yzta enda sporbaugsins — áður en hún getur snúið við og hlýðnast segulmögnuði sinnar eigin göngu — og er fjarst uppsprettu hitans, slokknar hún og deyr í helgreipum íss og dauða. Svo vaknar hún aftur úr dái ásamt jörð vorri og hinu öðru skuldaliði sínu og lífið tekur að þroskast að nýju og dafna við aðstreymandi hita á göngu hennar suður. Stjörnufræðigum telst svo til, að umferðartími sólarinnar, frá einum enda til annars á sporbaug sínum kringum Arctúrus, sé eitt hundrað og fimmtíu þúsund ár; og nú þegar á hinu síðasta tveggja þúsund ára tímabili, hafa jafnt og stöðugt verið lögð merki til vaxandi hita hvervetna í Evrópu.

## ÖLD LÍFS OG DAUÐA.

Með uppgötvun áhrifanna frá Arctúrus, er varpað ákveðnara ljósi yfir ísöldina og þær breytingar, er verið hafa á landi og vatni. Hvað eftir annað hefir veröld vor og sól og alt hennar skuldalið dansað eftir hinum langa sporbaug kringum Arctúrus. Hvað eftir annað hefir líf hafist og blómgast í hlýrra og hlýrra loftslagi til þess aftur að deyja í logandi geyslabáli Arctúrus. Hvað eftir annað hafa kynflokkar manna og konungaveldi hafizt og strítt og barizt og náð fullkomnun — einungis til þess að verða að engu í báli Arctúrus.

Eftir T. P.'s Weekly.

Jón Runólfsson, þýddi.

## HELZTU VIDBUÐIR OG MANNALÁT MEÐAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

Vorið 1910 útskrifuðust úr College-deild Manitoba-háskólans: Salóme Halldórson, dóttir hjónanna Halldórs Halldórssonar og Kristínar Pálsdóttur við Lundar-pósthús í Álftavatns-bygð í Manitoba.

Þórstína Sigríður Jackson. Foreldrar hennar eru Þorleifur Jóakimsson (frá Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá) og Guðrún Jónsdóttir Jónssonar (frá Urðarteigi á Berufjarðarströnd).

Baldur Olson. Foreldrar hans eru Haraldur Jóhannesson Ólafssonar og Hansína Einarsdóttir (bæði upprunnin á Húsavík í Þingeyjarsýslu), nú til heimilis í Winnipeg.

---

Júbil-þing (25. ársþing) hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vesturheimi var haldið í Winnipeg og stóð yfir frá 17. til 22. júní 1910. Forseti var endurkosinn, séra Björn B. Jónsson í Minneota, Minn.

---

1. júlí 1910: tók fullnaðarpróf í læknisfræði við læknaskóla í Chicago, Jóhann S. Jakobsson, fæddur á Eskifirði 5. ág. 1875, sonur Jóhannesar Jakobssonar veitingamanns (d. 1875) og konu hans Guðnýjar Jónsdóttur, sem nú á heima hér vestra.

---

Leifur Magnússon í Duluth fekk skrásetjara-embættið við bókhlöðuna miklu í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, 1910. Í nóv. árinu áður tók hann próf er til þess þurfti að skipa það embætti og leysti það af hendi ágætlega. Leifur útskrifaðist af háskólanum í Duluth, Minn. 1905 með ágætiseinkunn og hlaut þá Cecil Rhodes-verðlaunin, að fara til Oxford-háskólans, en fór þangað ekki, en í stað þess tók hann kennarastöðu við Central-háskólann í Duluth í bókstafareikningi og verzlunar-landafræði. Leifur þessi er sonur Sigfúsar Magnússonar Jónssonar (frá Grenjaðarstað) og konu hans

Guðrúnar Benediktsdóttur Kristjánssonar (frá Múla), sem átt hafa heima um mörg ár í Duluth.

---

Við kosningar til fylkisþings Manitoba í júlí 1910, náðu tveir Íslendingar kosning: Baldwin L. Baldwinsson, ritstjóri, fyrir Gimlikjördæmið og Thos. H. Johnson, lögfræðingur, fyrir Vestur-Winnipeg kjördæmið.

---

Á árinu 1910 sendi Gardar-söfnuður köllun til prests, guðfræðiskandidat Lárusi Thorarensen á Ísafirði. Hann tók þeirri köllun og var vígður til prestsembærtisins af biskup Íslands áður en hann lagði á stað hingað vestur. Séra Lárus tók að þjóna Garðar-söfnuði með desember-mánuði það ár.

---

Sveinn Brynjólfsson var á árinu 1910 skipaður af Danastjórn konsúll í Winnipeg. Sveinn er byggingarmeistari og flutti hingað af Vopnafirði. Hann er fyrstur Íslendingur er konúls-stöðu hefir skipað hér vestan hafs.

---

6. nóv. 1910 vígði forseti kirkjufélagsins, séra Björn B. Jónsson, kirkju Fríkirkjusafnaðar í Argylebygð.

---

Hið Unitariska kirkjufélag Vestur-Íslendinga hélt sitt 5. ársþing í kirkju Mary Hill-safnaðar í Manitoba í júnímánuði 1910. Forsetinn, Skafti B. Brynjólfsson, var endurkosinn.

---

Á árinu sem leið 1910 var séra Runólfi Marteinssyni veitt kennaraembætti í íslenskri tungu við Wesley College í Winnipeg í stað séra Friðriks J. Bergmanns sem sagði því embætti lausu eftir 9 ára þjónustu.

---

Snemma á árinu 1910 hlaut Jósef Thórson, ungur námsmaður við Manitoba College hér í Winnipeg þann heiður að verða styrkþegi Cecil Rhodes-sjóðsins. Hann er annar Ísl. hér í bæ, sem hlotið hefir þau verðlaun. Hann fór eins og lög gera ráð fyrir til háskólans í Öxnafurðu á Englandi um haustið það ár. Foreldrar hans eru Stefán Thórson og Sigríður Þórarinsdóttir; bæði ættuð úr Biskupstungum og hafa verið búsett í Winnipeg yfir 20 ár.

## MANNALÁT.

24. ágúst 1909: Helgi Daníelsson að heimili tengdasonar síns Daða Jónssonar og Önnu dóttur sinnar að Gardar, N. D., (ættaður af Langanesi í Þingeyjars), 83 ára.

8. Okt. 1909: Sigurbjörn Sigurðsson í Leslie, Sask. (ættaður úr Vopnafirði; flutti hingað 1904 frá Mýri þar í firðinum), 67 ára.

17. Des. 1909: Vilhjálmur Grímsson í Winnipeg, (ættaður úr Vopnafirði), 55 ára.

Des. 1909: María Jónsdóttir kona Kristjáns Sigurðssonar í Glenboro (ættuð úr Þingeyjarsýslu), 75 ára.

Des. 1909: Björn Guðmundsson, sonur Guðm. Guðmundssonar á Gimli, ungur maður.

### JANÚAR 1910:

17. Halldór Eyjólfsson Nikulássonar í Minneota, Minn.

18. Helga Jónsdóttir Þorsteinssonar, til heimilis hjá móður sinni, konu Sigurðar Johnson, bónda í Þingvallabygð í Sask (ættuð úr Mývatnssveit), 22 ára.

20. Ólafur Þorsteinsson í Pembína, N.-Dak. (fæddur í Tungu í Grafningi 1. jan. 1831; mun hafa flutt hingað vestur 1878. Ekkja hans heitir Elín Stefánsdóttir prests Stefánssonar á Felli í Mýrdal), 79 ára.

25. Albert sonnr Kristjáns Johnson og konu hans Guðrúnar sem búa í Duluth, Minn., 18 ára gamall.

28. Andrés Jóhannesson bóndi við Brú-pósthús í Argylebygð (úr Þingeyjarsýslu).

28. Ingibjörg Björnssdóttir Ólafsson í Winnipeg (fædd í Húsavík í N.-Múlas.), 24 ára.

29. Þorsteinn Holm, til heimilis í Winnipeg, miðaldra maður.

### FEBRÚAR 1910:

4. Bjarni Björnsson í Keewatin, Ont. (ættaður úr Landeyjum í Rangárv.s.), 66 ára.

5. Sigurður Pétursson bóndi í Pembina Co. í N.-Dak. (flutti hingað vestur 1876 frá Lýtingsstöðum í Vopnafirði; foreldrar hans Pétur Guðmundsson og Þorgerður Bjarnadóttir er bjuggu að Rangárlóni á Möðrudalsheiði), 66 ára.

6. Jóhann Jóhannesson Borgfjörð, bóndi við Hólar-pósthús í Sask. (flutti vestur um haf 1876), 78 ára.

8. Sigríður Erlendsdóttir Anderson, til heimilis í Blaine, Wash.

11. Gunnar Guðmundsson, til heimilis á Gimli (ættaður af Skarðsströnd í Dalasýslu), 68 ára.

12. Rósa Ingibjörg, dóttir þeirra hjóna Sigurðar Erlendsonar og Medoniu Indriðadóttur í Winnipeg. Hún var gipt annara þjóða manni (Mintoft), 22 ára.

13. Þórey Jónsdóttir, kona Jónasar bónda Hallgrímssonar að Gardar, N.-D. (foreldrar hennar voru Jón Jónsson og Kristrún Kristjánsdóttir. Þórey var uppeldisdóttir Stefáns alþingism. Stefánssonar á Steinstöðum í Eyjafirði), 60 ára.

13. Guðmundur Guðmundsson bóndi á Þingeyrum í Geysisbygð í Nýja-Íslandi (ættaður úr Húnavatnssýslu; foreldrar hans Guðm. Jónsson og Ósk Guðmundsdóttir á Torfalæk á Ásum), 64 ára.

14. Stefán Jónsson í Mikley (Þingeyingur). Hans er nánar minst í þessu almanaki fyrir árið 1907.

21. Hjálmar Bjarnarson, til heimilis í Spanish Fork, Utah (ættaður úr Húnavatnssýslu; foreldrar hans hétu Björn Hjálmarsson og Guðrún Símonardóttir er lengi bjuggu á Akri), 66 ára.

26. Guðmundur H. Björnsson við Brú-pósthús í Manitoba (sonus Björns Björnssonar og Guðnýar Vilhelminu Einarsdóttur frá Grashóli á Melrekkasléttu í Þingeyjars.), 28 ára.

26. Kristján Jónsson, læknir í Clinton, Iowa (frá Ármóti í Árness.), 46 ára.

26. Sigurbjörg Olina Paulson í Winnipeg (dóttir Jóhanns Hannibal Schaldemose, 44 ára.

27. Árni Árnason, til heimilis í Winnipeg (járnsmiður frá Sauðárkrók í Skagafj.s. Var búinn að vera hér 5 ár), 90 ára gamall.

MARZ 1910:

1. Jónína Þóra, kona Þorkels Jónssonar Sveinbjörnssonar Oddstað, að Crescent-pósthúsi í B. Columbia (foreldrar hennar eru KristjánÁrnason og ÞóraJónsdóttir til heimilis á Baldur, Man., fluttu til Manitoba 1877), 33 ára.
3. Gunnsteinn Eyjólfsson bóndi við Ísl.fljót. (Er hans minst hér á öðrum stað í þessu almanaki).
5. Sveinn Sigfússon, til heimilis hjá syni sínum Frímann K. Sigfússyni kaupm. í Blaine, Wash., 63 ára:
5. Amy Flora, kona Halldórs B. Halldórssonar í Souris, Norður-Dakota, dóttir Magnúsar Stephánssonar og fyrri konu hans Valgerðar Jónsdóttur Bergmann, systur séra Friðriks J. Bergmanns, 28 ára gömul.
10. Aðalbjörg Jónsdóttir, kona Sigmundar Guðmundssonar bónda í Árdalsbygð í N.-Íslandi (ættuð úr Borgarfirði í N.-Múlasýslu), 61 árs.
10. Valgerður Björnsdóttir, ekkja Andrésar Jóhannessonar er lézt að Brú-pósthúsi 28. jan. þ. á. (fædd að Meiðavöllum í Kelduhverfi; foreldrar hennar voru Björn Jósefsson og Helga Jósafatsdóttir), 75 ára.
12. Svanhvít, dóttir þeirra hjóna Guðmundar Einarssonar og konu hans Málfríðar Jónsdóttur, til heimilis við Hensel, í Norður-Dak., 25 ára.
15. Sigurbjörg, kona Sigvalda Nordal í Selkirk (fædd á Kringlu í Húnavatnss.; foreldrar hennar voru Björn Ólafsson og Vilborg Jónsdóttir), 50 ára.
19. Hólmfríður Jóhannsson í Winnipeg, 24 ára.
23. Hólmfríður Hannesdóttir Björnssonar, prófasts í Hítardal, til heimilis við Garðar, N.-Dak. (ekkja Vigfúsar Jónssonar, timbursmiðs, d. 1870, og síðast bjuggu að Dalakoti við Stykkishólm í Snæfellsness.), 84 ára.
26. Guðný, kona Sv. Björnssonar í Winnipeg, 33 ára gömul.

26. Jóhannes Magnússon, til heimilis í Winnipeg (ættaður úr Blönduhlíð í Skagafirði), 51 ára.
30. Jóhannes Sigurðsson, til heimilis í Seattle, Wash. (fæddur í Viðvík í Hjaltadal 1839; flutti hingað vestur 1874).
31. Sigríður Taylor, til heimilis í Winnipeg, (tvígift, síðari maður hennar hét Taylor, enskur, en fyrri maður Sveinn Þórarinsson, skrifari, ættaður úr Kelduhverfi, en hún frá Mývatni, synir þeirra eru þeir Jón Sveinsson, kaþólskur prestur í Danmörku og Friðrik Sveinsson, málari í Winnipeg), 86 ára gömul.

APRÍL 1910:

7. Sigurður Richards Johnson í Minnesota-nýl., 25 ára.
9. Steinólfur Grímsson, til heimilis við Quill Valley pósthús, Sask. (fæddur á Síðumúla í Hvítársíðu; foreldrar hans Grímur Stefánsson og Guðrún Þórðardóttir prests á Lundi í Lunda-Reykjadal), 77 ára.
16. Olafía Jónsdóttir Anderson í Leslie, Sask.
22. Guðlaug Guðmundsdóttir, ekkja Einars Einarssonar bónda að Öxará í Geysis-bygð í Nýja-Íslandi, er þar lézt fyrir nokkrum árum, 59 ára.
23. Guðrún Anna (gift Jessen) elzta dóttir Árna Guðmundsen á Washington eyunni í Wisconsin, 32 ára gömul.
22. Anna Soffia Guðmundsdóttir, kona Þorsteins Björnssonar í Winnipeg (ættuð úr Skagafirði), 27 ára.
22. Helga Pálsdóttir í Tacoma, Wash. (fædd í Rvík 1859; foreldrar hennar voru Páll Magnússon og Guðny Lýðsdóttir).
27. Sigríður Árnadóttir, kona Gísla Jónssonar bónda og kaupm. á Laufhóli í Árnesbygð í Nýja-Íslandi, 77 ára.
27. Sigurgeir Sigurðsson (Sivertz) hjá dóttur sinni, Sigurbjörgu, á Point Roberts, Wash. (fæddur á Vatnshóli í Húnavatnss. 1826; ekkja hans heitir Björg Jónsdóttir frá Mýratungu í Reykhólasveit í Barðastrandasýslu; á Ísl. bjuggu þau lengst á Grænhól á Barðaströnd).

Maí 1910:

1. Albert, sonur Jóns Jónssonar og Sigurbjargar Benediktsdóttur í Edmonton, Alta., 20 ára.
6. Anna Kristín Gunnlaugsdóttir, kona John J. Westdal við Wynyard, Sask., 61 árs gömul.
10. Þórdís Þórðardóttir, kona Dagbjarts Andréssonar í Brandon, Man. (ættuð af Ísafirði), 32 ára.
22. Ari Egilsson í Brandon, Manitoba (sonur Egils Hallgrímssonar í Minnivogum í Gullbringusýslu), 58 ára.
26. Kristín Guðmundsdóttir, kona Jóns Hreinssonar í Spanish Fork, Utah. (ættuð úr Vestmannaeyjum, þar fædd 1854, dóttir Guðm. Árnasonar og Guðnýar Árnadóttur er eitt sinn bjuggu í Mandal þar á eyjunum).

Júní 1910:

4. Dagbjört Ólafsdóttir, kona Guðmundar Jónssonar í Pembina, N.-Dak. (ættuð úr Fljótum í Skagaf.).
4. Margrét Ólafía Ólafsdóttir, kona Bjarna Sigurðssonar á Stony Mountain, Man. (frá Arnarstapa í Mýrasýslu) 70 ára.
8. Kjartan, sonur þeirra hjóna Haraldar Jóhannessonar Olson og konu hans Hansínu, til heimilis hér í Winnipeg, 19 ára.
13. Ólína Ingibjörg Gillis í Winnipeg, 16 ára.
13. Sigurður Hnnesson Hannessonar, til heimilis í Spanish Fork, Utah (fæddur á Hvoli i Ölfusinu í Árnessýslu 22. ág. 1855).
14. Bjnrni Magnús Jónsson að Gardar, N.-Dak. (úr Gullbringusýslu), 41 árs.
24. Olga Anderson, til heimilis hjá fósturforeldrum sínum Mr. og Mrs. Thorst. Thorsteinsson í Beresford, Man. (dóttir Sig. heit. Andréssonar, í Brandon, af Ísafirði), 14 ára.

Júlí 1910:

4. Guðbjörg Björnsdóttir, ekkja Páls Pálssonar (d. á Ísl. 1873), til heimilis hjá dóttir sinni Ingibjörgu og

manni hennar Baldvin Jónssyni bónda í Árdals-bygð í Nýja-Ísl. (ættuð frá Glæsibæ í Skagafirði), 77 ára.

4. Paul Johnson í Winnipeg (sonur Sigurbj. heit. Jónssonar er eittsinn bjó á Stórugiljá í Húnav.s.), 29 ára.

4. Guðmundur Þórarinnsson í Winnipeg, 58 ára.

8. Pétur Arngrímsson, til heimilis við Mozart-pósthús í Sask. (fæddur í Tungunesi í Sauðaneshreppi í Þingeyjarsýslu), 85 ára.

15. Margrét Jónsdóttir, kona S. S. Skúlasonar í Winnipeg.

16. Magnús Brynjólfsson, ríkis-lögsóknari fyrir Pembina county, að heimili sínu í Cavalier, Norður-Dakota (fæddur á Skeggstöðum í Svartárdarl í Húnav.s. 28. maí 1866. Foreldrar hans voru Brynjólfur Brynjólfsson Magnússonar og Þórunn Ólafsdóttir Björnssonar. Magnús heit. var fyrstur Íslendingur sem tók próf í lögum hér vestra.

21. Steinunn Gísladóttir, kona Hannesar Blöndals, til heimilis í Maríetta, Wash. (foreldrar hennar voru Gísli Sigurðsson og Ásdís Magnúsdóttir, eittsinn til heimilis í Flögu í Húnav.s.), 57 ára gömul.

## Ágúst 1910.

7. Lukka Sveinson í Baldur, Man., 26 ára.

9. Jónatan Jónatansson við Hólar-pósthús í Sask. (fæddur á Uppsölum í Skagafirði 1834).

9. Hjálmar, sonur Gabríels Gabríelssonar bónda við Theodore-pósthús í Sask., 18 ára.

17. Anna Ingveldur Skúladóttir, kona Þorkels Guðmundssonar til heimilis í Lincoln Co. í Minnesota (ættuð úr Skagafirði; bjuggu þau hjón lengst að Vöglum í Skagafirði; 1884 fluttu þau til Vesturheims), 85 ára.

18. Hannes Benjamínsson Blöndal í Marietta, Wash., rúmlega fimtugur.

24. Halldór Halldórsson, til heimilis í Mikley (ættaður úr Borgarfirði syðra, og bjó á Íslandi á Bjargasteini í

Stafholtstungum, flutti hingað vestur 1878), 77 ára gamall.

28. Jón Jóesson, til heimilis í Duluth, Minn. (fæddur á Daðastöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, hafði verið hér vestra um 37 ár, í Duluth lengst af), 93 ára.

30. Arngrímur Kristjánsson, bóndi í Þingvallanýlendu, Sask. (ættaður frá Steðja á Þelamörk í Eyjafjs.), um fimtugt.

30. Bernharður Jónsson, bóndi í Foam Lake-bygð í Sask, 53 ára.

31. María Stefánsdóttir, til heimilis í Gloucchester, Mass. — gift kona — (ættuð af Höfðaströnd í Skagafirði), 88 ára.

Júlíus Adolph, sonur Sumarliða Sumarliðasonar, til heimilis við Tumwater, í Wash., um 20 ára gamall.

## September 1910.

1. Aðalsteinn, sonur Jóns S. Jónssonar á Baldur, Man., tæplega tvítugur.

3. Pétur Melsted í Winnipeg, sonur Sigfúsar bónda Melsted í Þingvallanýlendu, 24 ára gamall.

7. Sveinbjörn Sigurðsson, bóndi í Mouse River-bygð í N.-Dak. (sonarsonur séra Sigurðar á Auðkúlu; flutti hingað vestur 1883 frá Ósi í Arnarneshreppi í Eyjafirði þar sem hann hafði búið nærfelt 20 ár, ekkja hans heitir Sigríður Sveinsdóttir), 73 ára.

8. Þórunn Sigurðardóttir, til heimilis í Keewatin, Ont. (frá Hrauni á Skaga í Skagafjarðars.), 87 ára.

11. Pálmi Hjálmarson, bóndi við Hallson-pósthús í N.-Dak. (flutti til Vesturheims 1876 frá Þverárdal í Húnavatnss.; foreldrar hans Hjálmar Loftson og Björg Pálmadóttir er lengi bjuggu á Æsustöðum í Langadal), 72 ára.

15. Sigríður Pétursdóttir, kona Björns Sigurðssonar Crawford við Winnipegosis, Man. (ættuð úr Barðastrandasýslu), 55 ára.

14. Guðrún Vigfúsdóttir, kona Kristjáns Bessasonar frá

Blönduósi í Húnav.s. (ættuð úr Rangárvallasýslu), 42 ára.

19. Gróa Jónsdóttir, til heimilis á Washington eyunni, ekkja Friðriks Gíslasonar (bjuggu þau um langt skeið á Eyrarbakka á Íslandi). Tengdamóðir Hjartar Thordarsonar, raffræðings í Chicago, 95 ára gömul.

22. Eyjólfur Eyjólfsson í Winnipeg (ættaður úr Laugardælum í Árnessýslu — nýkominn frá Íslandi), 32 ára.

30. Guðmundur Guðmundsson í Winnipeg [ættaður af Austurlandi], 48 ára.

Gestur Kristjánsson, til heimilis í Gardar-bygð, N.-Dak., 36 ára.

### OKTÓBER 1910:

5. Þórunn Einarsdóttir, kona Gunnlaugs bónda Oddssonar í Geysis-bygð í Nýja-Íslandi, 52 ára.

12. Geirhjörtur Kristjánsson við New Hill-pósthús í Alberta [fæddur á Sörlastöðum í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu 1845; foreldrar hans voru Kristján Guðlaugsson Pálssonar og Guðrún Gísladóttir Rafnssonar frá Krókum í sömu sveit, ekkja hans heitir Guðfinna Jónsdóttir frá Hóli í Fnjóskadal, fluttu þau vestur 1881].

21. Björn Ágústsson Blöndal timburmeistari í Winnipeg [flutti hingað vestur 1883 úr Húnavatnssýslu] 52 ára.

27. Ingólfur Kristjánsson í Foam Lake-bygð í Sask. [fæddur í Mývatnssveit 3. nóv. 1824; foreldrar hans Kristján Indriðason og Guðfinna Jóhannesdóttir] 26 ára.

29. Jóhannes T. Paulson í Leslie, Sask. (foreldrar hans þau Thomas Thordarson Paulson og Thórunn Jóhannesdóttir, sem þar eiga heima), 30 ára að aldri.

29. Guðleif Stefánsdóttir Einarsonar, til heimilis hjá Mrs. Th. Gíslason við Tantallon-pósthús í Sask.

30. Guðbjörg Helga dóttir Péturs Hallssonar að Lundarpósthúsi, Man., 18 ára.

31 Sigríður dóttir Jóhannesar á Dagverðarnesi í Nýja-Íslandi, gift Mr. Pruden, til heimilis við Poplar Park. Man., 24 ára.

NÓVEMBER 1910:

1. Guðbrandur, sonur Jóns Jónssonar og konu hans Guðrúnar til heimilis á Washington-eyunni í Wisconsin (bjuggu á Íslandi í Hrauntúni í Árness.), 18 ára.
2. Jónas Halldórsson, til heimilis hjá dóttur sinni Önnu á Gimli (ættaður úr Skagafirði, fluttist þaðan fyrir 6 árum), 70 ára.
2. Sigríður Kristjánsdóttir, ekkja af Ísafirði, til heimilis í Winnipeg, 73 ára.
5. Guðný Schram, kona Odds Sveinssonar nálægt Mountain, N.-D. (dóttir Josephs Schram og konu hans Kristínar er búa í Nýja-Íslandi), 32 ára gömul.
7. Benedikt J. Austmann í Bellingham, Wash [ættaður úr Eyjafirði. Flutti af Austurlandi til Vesturheims 1776], 65 ára.
10. Þorbjörg Jónsdóttir, kona Eiríks Sumarliðasonar í Winnipeg [ættuð úr Borgarfirði], 42 ára.
11. Anna Jóhannesdóttir Egilssonar, kona Jóns T. Bergmanns í Winnipeg, 25 ára gömul.
15 Ósk Ólafsdóttir, yfisetukona, hjá dóttur sinni Guðrúnu í Hvammi við Íslendingafljót [frá Sauðadalsá á Vatnsnesi í Húnav.s.], 83 ára.
15. Sigurbjörg Jónsdóttir, til heimilis hjá syni sínum, Vilh. Þorsteinssyni, í ísl-bygðinni í Norður-Dakota, ekkja Þorsteins Jónssonar er þar lézt fyrir tveim árum [bæði ættuð úr Skagafirði], 82 ára gömul.
19. Þorsteinn Bjösnsson í Winnipeg, 26 ára.
19. Jón Friðriksson bóndi í Grunnavatnsbygð í Manitoba [fæddur á Hafrafellstungu í Axarfirði; foreldrar hans Friðrik Þorvaldsson og Guðrún Þorgrímsdóttir], 44 ára.
20. Sigurður Laxdal hjá syni sínum Lúðvík í Candahar, Sask. [ættaður úr Eyjafirði, bróðir Eggerts Laxdals, kaupmanns á Akureyri], nær áttræður.
21. Ólína Guðrún Guðmundsdóttir, kona Jóhannesar Gíslasonar við Vita, Manitoba, 42 ára.
28. Björn Ó. Björnsson, bóndi í Mikley á Winnipeg-vatni [ættaður úr Mýrasýslu], 50 ára.

25. Valgerður Jónsdóttir, ekkja Þórðar Brynjólfssonar Víum (foreldrar hennar voru Jón Sigmundarson og Valgerður Guðmundsdóttir hjón í Nesi í Geiradalshr. í Barðastrandasýslu), 63 ára.
28. Helga Ingibjörg Sigfúsdóttir, kona Sigurðar Ólafssonar í Winnipeg, 60 ára gömul.

---

## INNIHALD ALMANAKSINS 1911.



---